# Sannleiki Gud-hrædsluñar

J einfalldri, og sem vard stuttri po-al-nægianligri

# Ut-skijringu

Yfir

## Sal. Doct. Mart. Luth. Litla Catechismum.

Innihalldandi allt þad, sem sá er vill verda saluholpiñ, þarf vid, ad vita og giora

Eptir

Kongl. Allranaadigustu Skipan

Til allmennrar Brukunar,

Giørd af

Prof. EIRIKE PONTOPPIDAN,

Kongl. Majest. Hof-Presti.

Eñ nu a Islendsku utlögd af

Sira Halldori Brynjolfs Syne

Profasti og Presti ad Stada Stad i Islande.

Selst alment iñbundin 8. Fiskum.

Kaup-manna Höfn,
J þvi Kongl. Fatæklinga Prentverki,
og upp-a þess Kostnad,
Prentud af Gottmann Friderich Kisel
Arid 1741.



In Statua Senacheribs insculptū fuit
Ἐς ἐμέ τις ὁρέων εὐσεβὴς ἔστω.
Quae huic libello applicanda censeo.

# Immanuel!

Sa sami Gud, sem vill, ad aller Menn verde saluholpner, vill og so þar med, ad þeir komest til Sanleikans Vidurkienningar, og vaxe sijdan meir og meir i þeirre somu; efter þeim Hentugleikum og Medølum Hialpræðesins er þeim verda framboðiñ fremur ai øld eirne enn annare.

Nu lysum vier ai øld þeirre, er Veralldar Vijsdomur med sinum Konstum, er hærra stigenn, enn (kannske) fornaldar Menn hafa sier i Hug leidt. Efter þetta vill einginn heita halfvite

 Speke

Speke ſinar. J þvi vill hvor eirn vera froodur til agans, ſem hann veiter vidgøngu. O! hvad myklu fremur hæfde oß ad vera ſoleidis ſinnuduṁ i þvi er ai hrærer þekking Guds og vorrar eiginn Saaluhialpar, er vier þo aller (ad minſta Koſte efter utvortis Auglyſing) bæde jatuṁ oß ad vita, og høfum um hønd.

Reglulega ad innſkignaſt i Sanleika vorrar Truarbragda, ætte med øllum riette ad vera ſierdeilis Augna-Mid og Takmark þeirra Ervidis, er ei vilia reiknaſt uṁ tima og eilyfd i Tølu þeirra Heimſkingia, ſem mæda ſig i morgu, enn vyrda einkis þad eina ſem naudſynlegt er.

Raunar er þad ſatt, ad þekking Guds nær ei alltid eda hia øllum þeim rietta Avexte Elſku Andſveipne. Þar hitteſt Samvitſkulaus Vitſka; Mattlaus Þekking; eirn blæs þar upp er hann ſkylde uppbyggia. Hier uppa giefur allra ſtærſtu Eſterdæme reinſla vorra Tima.

Lyte

Lyte eg um bak mier aftur til Forfedra vorra, þa vyrdest mier þeir hafe giørt fremur sinum̃ vitsmunum̃, enn vier sem vitum betur giørum ver. Þeir lyktust þeirre Augudaupru Lea, sem var avaxtarsom, eñ vier ad frijdleik og uvaxtarleise Rachel. Ekke ad sydur biheldur þo Sannleikuriñ sinne ysred dyrmætu Hroosan; þvi jafnvel þott vor Drottinn JEsus Joh.13/17. eige pryse nokkurn sælann, vegna þeß hann veit, an þeß hann giøre þad hañ veit, þa setur hann þo vitundena fyrer framan, so sem þad fyrsta sem naudsynlegt er til Truarinnar, an hvorrar omøgulegt er i nokkru Verke Gude ad þoknast. Su Trigd, er marger Einfalder audsina i þvi ad ganga efter þvi litla Liose, þeir hafa, kiemur oß til ad alikta, þad, ad þeirra framferde være enn þa langtum betra, ef þeirra Jnnsign i Sanleikan være fullkomnara. Sa ed giører þad Verk i Halfslysu, er þs þarf fullrar Dags byrte vid, fær þvi

 (kan-

(kan ske) afloked, enn þo med stærre Mœdu, Vanda og Augnraun. Myrkred stodar hann alldeilis ekke þar til, heldur sat litle Glampe sem þvi er samfara, og þvi meir sat same eykist med Morgnenum, þvi gaumgiæfeleger fær hann (ef hann vill) sinu Verke afloked.

So satt sem þetta er, so audsien er Farsæld vorrar Alldar fremre ad vera eñ vorra Forfedra. Hvers vegna madur hefur kostad kapps um̃ med þessare Utskijrning Sal. Doct. Mart. Lutheri litla Catechismi ad utbreida, audur aminsta farsæld af auglioſare þekkingu Saluhialparinnar Sannleika, Medal þess unga og einfallda Almuga hier i Lande. Orsøken sem uppvakt hefur til þessa Verks, er sierdeilis þesse, ad þvi nær hvort Stift hingad til, hefur haft sinn eigen sierdeilis Catechismum, og þa nokkrer Prestar hafa funded þann sem tijdkast hefur i þeirre Sokn i eirn edur annann Maata, ei so anægianlegann

leganñ sem þeir vildu hafa fyrer mælt, hafa þeir af einlægre Umhyggiu sialfer samanteked og meddeilt þeirra søfnude vißar skrifadar Spurningar. Jafnvel þott nu Grundvøllur Lærdomsins være hinn same, hefur þo imisleg adferd Uppfrædingarinñar, ekke synst iafn hentug, sem ein almennelig og efter þørfum anægianlig, sømuleides a alla Vegu med ritningarinnar Greinumm stadfest Catechismi Utskyring, uppsett efter hans Kongl. Majest. allra naudugustu skriftlegre Befalningu til min, og randsøkud af vidkomendum efterforme þeirra heilsu sømu Orda.

Hvort nu þesse Catechismi Utskyring er so anægianlig, skyr, Reglulig og alla vegu at sig kominn, sem þeir akiosa vildu er umgangast eiga med Ungdomsins Uppfræding, leidest vel i Lioos ad lidnum nockrumm Timum. Þeß i midlum mættu þeir, sem med sautt eru til frids, yfervega

hvad vandhæft er ad koma til samans i eitne Catechismi Utskyringu fullnægiu, agripe, Upplysingu, Maita og skilianlegleika alls naudsynlegs Sannleika Christelegs Lærdoms. Isillelegre Sameiningu þeßra Eiginnlegleika gietur madur ætid leidt sier eina hærre Troppu i hug, hvort eg ei helldur seige Omøguligt, nu sa er sialfur leggur Hendur a þad Ervide, mun finna hver Vande þar er a, ad hitta a alt efter hvors eins Osk i þeß Hattar Skrifum, hvar einginn Persiona ske mot Ungdomsins Minne, med Margbrota; Eckert a mote hans Skilninge, med Myrkyrdum; eckert a mote Sannleikanum, med annarligu Rugle; eikert a mote Sambande Sannleikans, med Regluleise; eikert a mote Ordsins riettu Natturu, med siergiædislegum og Naudgudum Flækiumm. Hafe eg ei i øllu fillelega nad þessu Takmarke, þa hefe eg þo haft auga þar a.

Eg

Eg sel mier þa af hende þesse Ord Drottens efter Ha-Konglegre allranaduguſtu Befalning til almennlegrar Brukunar i Kiirkiumm vorum og Skolum.

Drottinn þrikke sialfur sinu Innsigle hier ai fyrer Uthellingu siinnar Naidar i allra Lesenda, sierdeilis þeirra ungu Hiortu! þad eg skylde, enn þo sialfur aldrig Kaus ad giora, hefe eg giort so vel sem eg gat. Þad Ofullkomna þar af verde þvi eiginlegaſt mitt. Hvad annad ahrærer, þa er eitt Ord þad, sem ai þeim siidaſta Deige skal dæma sina umbotarlausa og vantrua Foraktara edur Motmælendur, enn giora þær Sailer holpnar sem med hoogvære i Trunne, medtaka þeß Innplantan.

Kaupmanahofn,
d. 9. Octobris 1737.

E. P.

# Gud-elskande Lesare!

Kiærre er þvi þad eg take mier fyrer Hendur ad giora nokkurn Formaala til Forblumunar þessa Bæklings, þvi sie hans Lios ei sett under Mæle-Ask, lyser þad þeim i Husenu eru, af Liosa-Stiakanum Matth. 5, 15. enn sijdur eg þeinke annad hier med, enn þad sie lied 2 Kong. 6, 5. helldur efter Bokþrickiarans Bon, ad ei verde audar þær blad-sijdur sem umfram eru, fæ eg Tækefære til, med einu Orde ad gialda Jatkvæde vid þeirre Skadsemd sem ymislegt, og Nytsemd er sameiginnlegt, Uppfrædingar Form med sier færer; ei þeirra vegna sem þad þeckia, helldur hina, sem annad hvert Eyrun klæa fyrer ollu Niu Post.G.17,21. edur fordæma allt er þeir meina Nijtt, an þess þeir annad hvert giefe sier Stunder, edur hafe vit, til ad lesa i Drottins Bok og ransaka Ritningarnar, hvort ad þad sie so Es.34, 16.P.G.17,11.nefnelega Lærdomurinn af Gude Joh.7,17. Ein republiqve edur almenn Stiornan farsælest ei sid-reglulega medan eirn vill hafa þad svo, enn annar svo, sem mest ai rijdur; mun ei lijka hætt vid þvi, ad i Christelegre Kyrkiu hafe Einingar-leijse ol-

lad

lad mest og orsakad adskilianlegañ Oroda og Villur sem añars hef u aldr'g uppkomed, ef Mooder Foreijdslunnar, Oeiningeñ hefde ekke komest ꝏ legg, helldur eindrægne Andans Vered Eph.4,3. Handhafin, sierdeilis i fyrsta Uppfrædingar Forme Ungdomsins, hvert eg helld Paulus hafe, aisamt ødru, meint, sem eg þ̃ikest rꝏda af Ordum hans til Timotheum, þar hañ seger 2 Tim. 1, 13. Halldtu vid Form þeirra Heilnæmu Orda, sem þu hefur heirt af mier, þvi hann vilde aller meintu þad sama 1 Cor. 7, 10. Phil. 2, 2. ꝏ hveriu ekke rijdur minst i Underlage Uppfrædingarinnar, ad Hiartad verde fullkomed i Drottens Sidum Ps. 119, 80.

Menn vita hversu ymislega þad hefur geinged til i voru Lande, hvert ei er stort ad undra, þar Author klagar yfer, ad hier hafe geinged alijka til. Hefur ei hia oß eirn Biskupanna lated þrikkia þetta, enn annar hitt Spurninga Form? og þo hafa þau valla komest um hvers Stifte fyrer sig, þvi Profastar og Prestar hafa eirn efter annañ utgiefed Spurningar i þeirra Sooknum, efter þvi sem hverium hefur sijnst þa hentugast; af hverium margar eru agiætar, eñ med þvi mo-

te, hefur sama Form valla komest i annann Lid, jat Born sum hafa matt læra tvennar edur þrennar, og so gleimt einum epter adrar, þar þær ei vegna þeß Ruglings hafa feinged Root, so þegar eirn Profastur Viſiterar ad examinera Ungdominn, segest eirn hafa lært þeßar, annar hinar Spurningar, ad þad er vidliijka og so fordum þa eirn ſagde: eg er Pauls, annar: eg er Apollo, og þridie: eg er Kephæ 1 Cor. 1, 12. C. 3, 4. ei ad þeir hafe lagt annann Grunndvøll, þvi þad vard ei 1 Cor. 3, 11. helldur hafa þeir brukad ymislega Adferd 1 Cor. 3, 10. hvert ei er so hollt, þvi ei einasta (þvi nær) briitur eirn med þvi þad nidur, sem annar bygger, helldur þeinkia (kannſkie) einfalder, ad þeir ei meine þad sama, sem þo ai ad vera Phil. 2, 2. þvi er harla naudſijnlegt, ad ein riett og anægannleg Adferd og Form sie af øllum brukad, þar vier erum aller ſkiirder i einum Anda til eins Lijkama 1 Cor. 12, 13. og i einum Lijkama forlijkader vid Gud Eph. 2, 16. ad sieum aller einn i Christo Gal. 3, 28. so einfolldum sie audſært, þad þar sie einn Gud og ein Tru Eph. 4, 5. enn ei so sem stande einn ødrum mot under Augun Gal. 2, 11. Þvi hefur Gud innblaased Hans Kongl. Majest. Hiarta, ad af-

taka

taka þessa Meining, og tilsetia eina og sømu Adferd i Undervijsan Ungdomsins yfer bæde Rijkeñ og underliggiande Lønd, sem uñ er gieted i Bookmaala sialfs Authoris. Þad Form hefe eg i Nafne Drottens epter hærre Tilsøgn a vort Maal utlagt, þad næst eg gat a þessum stutta Tima. Eg ætlast ei helldur til i þeirre Utiegging, ad eg þokuest øllum, eñ sa Haalærde Author i Verkenu sialfu Gal. 1, 10. eñ viss er eg uñ ad mørgum mun vænt uñ þykia, bæde þad Verded er gott, og hitt, ad ei er fremur vid ødru Forme ad kotja, edur þeim vijsest fra Sacramente, þa þeir vita þessar Spurningar og, fyrer Guds Adstod, kappkosta af Hiarta, ad laga siñ Lifnad epter þeim. Marga medal ydar hefe eg vitad keppast epter ad verda frooder i sinum Christendom, læted þvi þad i Nafne Drottens asannast eñ a medal ydar, ad þier fyrst sialfer læred, og sijdan uppfræded þa yngre og einfalldare, ad þier fae og Lyst til þeirrar svikalausu Miolkur, so þeir tilskapped þa Lygemunna, er lasta ydur sem Heidingia. Gud veite ydur Krapt af Hædum, ad finna Raad og goda Uppfrædīng, so þier vared i allre þekking og Vidurkenningu Drottins, ad ydar Lios lyse fyrer Mønnum, so þeir siae ydar Godverk og dyrdke Fødurinñ þañ a Himnum er.

Þess óskar af Hiarta

Kaupmannahøfn,
d. 5. Maji.
1741.

Ydar allra
Þienare i Drottne:
Halldor Brynjolfsson.

P. S.

## Avysan til Skolameista-ranna.

Þær Spurningar, sem med Strikum ad Spatiu finnast afmarkadar, og so lioslega fraskildar, kunna einasta i Bokinne ad lesast og ihugast, eñ ei lærast utañ ad NB. af þeim tornæmu, og stutta Skolatijd hafande, eñ hin, sem bæde hafa Tima og Næme, eiga ekkert undañ ad fella; þa þetta er adgiætt, kañ eingiñ ad klaga yfer þvi, ad Bokiñ sie forstor edur vandasom, ad læra utañad, þar þridie edur fiorde Partur heñar er afmarkadur.

# EXTRACT

af

## Hans Kongel. Majestæts allra naadugasta Privilegio, daterudu Fredensborg d. 19. Julii 1737.

Hans Konungliga Majestat hefur allra naidugast efterlauted, ad Fatæklinga-Hused i Kaupmannahøfn alleina meige prenta þessa Catechismi Utskijrning, sem i baidum Kongarijkiunum ai ad introducerast til Ungdomsins Uppfrædingar, og þad eingenn mege dyrfast efter henne ad prenta, ei heldur i odrum Londum efter prentada, hingad ad innflitia, under Fim hundrad a Rixdala Straf til tieds Fatæklingahuss, edur annarar Gudligrar Brukunar, samuleidis allra efter henne prentadra Exemplaria Confiscation.

# Þau stærstu Errata

Eiga lagfærast og lesast, sem fy'ger, enn Pag. merker Bladsydu, fyrra l. Lijnu, enn sijdara, les þu:

Pag. 14. Lin. 11. les Saalu. l. 14. l. enn eg em. p. 18. l. 11. l. Arf-töku. p. 25. l. 11. l. Obrigdult. p. 27. l. 26. l. Kroß. p. 30. l. 16. l. þrætu. p. 39. l. 9. l. mier klosa. p. 40. l. 1. l. yfer. p. 47. l. 11. l. uppaled. p. 59. l. 4. l. Lykame. p. 60. l. 9. l. of Þingest. p. 65. l. 2. l. hia. p. 70. l. 24. l. ónijtin Ord. p. 82. l. 24. l. sælgiætingar. p. 83. l. 1. l. vißa. p. 93 l. 7. l. kann ad hafa. p. 103. l. 8 l. Mynd. p. 104. l. 1. l ódaudleike. p. 106. l. 25. l. til Syndartimar. p. 110. l. 16. l. Endurlausn. p. 118. l. 22. l. i þeßum Ordum. p. 120. l. 19. minnu. p. 125. l. 18. l. med sinne. p. 130. l. 29. l. a Himnum. p. 131. l. 18. l. skal seinasta O burt. p. 147. l. 15. l. hver einn riettlaatur alltijd og eins. p. 159. l. 12. l. utkastan. p. 160. l. 22. l. verdi. l. 24. fyrergef. p. 166. l. 27. Fódur. p. 180. l. 22. l. sar naalægaste. p. 190. l. 20. l. tilkynna. p. 196. l. 5. les Daudanum. p. 205. l. 15. l. yfer ausast. p. 207. l. 23. l. Branded. p. 211. l. 4. l. ihuijsast. p. 212. l. 12. l. Þier. p. 213. l. 11. l. marger. p. 216. l. 8. fyrer i; les þa.

Enn hinar minne Yfersiöner, er Gudhræddur Lesare umbeden Christelegum Kiærleika ad lagfæra og lesa i Maaled.



# Inn-gaangurinn.

1. Barn mitt elskuligt, villtu eigi feginn, vera farsæll a Jørdunne, og siidan verda saalu hoolpinn aa Himnum?

Iw, ef eg giæti odlast þad.

2. Villtu þaa gaanga þaa Gøtu, sem liggur til þeß Takmarks?

Jaa ef eg giæti fundid hana.

3. Trwir þw ei at þad sie einn Gud til?

Iw, þvi eigi hefur Heimurinn getad skapad sig siaalfur, hvers vegna þad hlytur ad vera til hanns neckur Orsøk, su er elldri og ædri sie øllum Hlutum, hver ad er sw eiliifa Vera, er kallast Guud.

4. Trwir þw ei, at Gud raadi fyrir Saalu hiaalpinni?

Iw vissuliga, þvi hann er yfir øllum Hlutum.

5. Trwir þw ei, at Gud unni þier Saalu hiaalparinnar?

Iw, þvi hann er saa Gud, sem goodur er.

6. Mun Gud þa ei vilia viisa þier Veg Saalu hialparinnar?

Jw, þad bregdst eigi.

7. Hvar med viisar Gud þier og mier þenna Veg?

Med siinu heilaga Ordi.

8. Hefum vier þa þetta Guds Ord vor a medal?

Jaa, i þeirri Heil. Ritningu, sem kallast Biblia.

9. Hefur Heimurinn altiid haft Guds Ord?

Jaa, i öndverdu af sierdeilis Opinberunum, og þeirra gomlu Forfedra munnlegum Uppfrædingum hafa menn haft Guds Ord, madur eptir mann, inn til daga Mosis sem þad fyrst skrifadi.

10. Hver hefur Bibliuna skrifad?

Þeir heilogu Spamenn, Gud-spiallarar, og Postular.

11. Voru þeir eigi Menn?

Jw.

12. Hvernin er þa þeirra Ord Guds Ord?

Þvi Andi Guds hefur blaasid þeim i Hug, allt hvad, og med hverium Ordum þeir skylldu skrifa.

2 Tim. 3, 15. 16. 17. Med þvi þu veitst þa heilogu Ritningu i fraa Barndoomi. Þaa kann hun at undirviisa þier til Saalu hiaalpar, fyrir Trwna aa Jesum Christum. Oll Ritningin er af Gudi indblaasin, og nytsamlig til Lærdooms, til Umnivandanar, til Betrunar, til Leidriettingar i Riettlæti: so ad Guds Madur sie algior, og til alls goods Vercks hæfiligur.

2 Pet. 1, 21. Einginn Spaadoomur hefur enn nw eptir mannligum Vilia verid framfluttur; helldur af heilogum Anda tilknudir hafa þeir heilagir Guds Meñ talad. Siaa fremur Matth. 10, 19. 1 Cor. 2, 13.

13. Hvar af þeckir madur, at sw Ritning sierdeilis, sem vier høfum, sie sannarligt Guds Ord?

Af ymisl:gum Hlutum, so sem bædi Gydiinganna, Tyrkianna, og lıka annra elldstu Pioода Samsinning; þvi þeir vitna til þeß sama Ords; Einnin af Sam-hlioodan Skrifaranna, Uppfyllingu Spaadoomanna, af Stadfestu marghauttadra Kraptaverka, og ad siidustu af þeim ofluga Framgaingi, er þetta Ord hefur haft, aan Rwgunar og mannligrar Magtar; og þad midt i þeim bloodigu Offsooknum, þar so margar Þwsundir Piislar votta med þeirra eginn Bloodi innsigludu Sannleikan.

14. Enn hvad skal sa tilgiøra, sem enn þaa ecki trwir, at Ritningin sie Guds Ord?

Hann skal reyna til ad hlydnast Ordinu, og gefa þeß Verkan Rwm i Hiarta siinu; Þaa mun hann verda þeß sioott var, at þat hefur i sier nockurskonar yfirnaatturlegann og riett Gudlegann Ypparlegleik, Krapt, Lyf og Anda til at upplysa, sannfæra, upporva, hugga og aavijta Samvitskuna.

Joh. 7, 17. Ef saa er nockur sem giora vill hanns

Vilia, hann reynir hvert Lærdoomurin er af Gude, edur eg tala af sialfum mier. Siaa Ps. 50,23.

15. Eigum vier þaa vafalaust ad med-taka H. Ritning, fyrir þaa einustu fullkomnu Reglu vorrar Trwar og Framm-ferdes?

Jaa, vissuliga.

Luc. 16,29. Þeir hafa Mosen og Spaamennina, hlydi þeir þeim. Joh. 20,31.

16. Maa madur þaa ei byggia Trw siina og Framferdi aa medallausum Opinberunum, Draumum, Sier-vitsku Þootta, Annara Manna Myndugleika og Epterdæmum, Gømlum Meiningum, Ords kvidum, Hefd, Vid-tekt og Vana, edur soddan nockru?

Nei, aa þvi byggist eingin Sønn Trw og Hlydni, helldur Mis-trw, Gudleysi og Sier-þootta Dyrdkan, sem Gøudi er þvert aa moti.

Gal. 1,18. Enn þoott vier og, edur Eingill af Himni, predikade ydur annad Evangelium, enn vier predikudum ydur, hann veri bølvadur.

17. Hefur Guds Ord enn nw fleiri sierdeilis Einginlegleika fremur Mannanna Ordum?

Jaa, næst hinum Guddomliga Obrygdanligleika, Krapti og Fullkomnan, sem alla reidu er syndt, hefur þad nockra eina sierdeilis Birtu til at upplysa oss, sem af Nattwrunni til erum forblindadar Manneskiur.

Psal. 119,105. Ord þitt er Lampi Foota minna, og Lioos aa minum Vegum.

18. Er

18. Er Biblian þoo ekki myrk og þvngskilin fyrir einfallda og oo-frooda?

I þeim øllum Hlutum, sem utheimtist ad øðlast sier til Saalu hiaalpar, er hun skyr noog fyrir þaa, sem hafa hana riett umm Hond, hvert helldur þeir eru Leikir edur Lærdir.

2 Tim. 3, 15. 16. 17.

19. Hvernin hefur þa Madur Guds Ord riett umm Hond?

Þegar madur fyrst andvarpar til Guds umm siins heilaga Anda Upplysiing; þar næst les Guds Ord med goodri Gaum-giæfui og alvarligri I-hugan, med fiusum a-setningi ad breita eptir þvi, og med Hiart-groonni Hlydni og Idkan. Þegar madur leitar epter i þvi at sedia Hungur Saalar sinnar, enn ei at svala holldlegri Forvitne, og ad siidustu, þaa madur ei afbakar nie raung-færir Meining Ordanna eptir sialfs siins Ged-þokka, helldur leitar ein-lægliga i þvi ad þeim Sannleika, sem þienar til Gudhrædslunnar, og þar eptir ransakar sitt eigid Hiarta.

Joh. 5, 39. 40 C. 7, 17.

20. Getur madur eigi af eintoomis holldlegri Skynsemi skiled og vtlagdt Ritninguna til Saaluhiaalplegrar Þeckingar?

Nei, þvi vor Skynsemi er af Syndinni fordiorfud.

1 Cor. 2, 14. Holldlegur madur skynlar eckert af þeim Hlutum, sem heyra Guds Anda til; fyrir þvi

 þad

þad er hønum heimſka, og hann fær ei Þeckt þá þoi Þaddæmiſt andlega. Eph 1, 17.

21. Hverier eiga ad leſa Ritninguna?

Aller, og þvi ei einaſta Kennendur, helldur og Tilheyrendur. Þad meiga ei einaſta allir ad friálſu leſa Ritninguna, helldur er þeim þad ſem Skyllda uppalagdt, jaa þad er i ſialfu ſier nockur Gudligur Velgiornungur, er ſier hver Christin med Þackláti og Fognudi ætti at færa ſier i Nyt, til tiimanligrar og eiliifrar Velferdar.

Poſt.G.17, 11. og 2 Tim, 3, 15. Joh. 5, 39.40.

22. Hvernin ſundur ſkiptiſt Heilóg Ritning?

J gamla Teſtamentid, ſem Spamennirnir hafa, fyrir Christi Tiid, a Ebreſku ritad, og þad nya Teſtamenti, ſem af Gudsſpiollurum og Poſtulum er i Griſku Mali ſkrifad eptir Christi Hier-viſtar-daga, og hverutveggi ſiidan wt-lógd a vorra Landa Twngumal, til allra Jdkanar og andligra Nota.

23. Lat mig heyra hvert þu veitſt ad adgreina þær Bækur, ſom hlyda til gamla Teſtamentinu?

Nofn og Tala þeirra, ſem til er vandt ad vitna ii Predikun og Leſtri, eru i Rod, ſem epter ylgir: Fimm Bækur Moſis, Joſuæ Book, Doomara Bookin, Ruths Book, tvær Bækur Samuelis, tvær Bækur Konunganna, tvær Chroniku Bækur. Ein Eſræ, ein

ein Nehemiæ, ein Esthers, og ein Jobs Book. Hundrad og Fimmtiu Psalmar, flestir ordtir af David. Þriar Bækur Salomonis, kalladar Ordskvidir, Predikari og Lof-Kvædi. Fioorir stærri Spamenn, nefniliga: Esaias, Jeremias, Ezechiel og Daniel. Tolf smærri Spamenn, sem eru: Hoseas, Joel, Amos, Obadia, Jonas, Micheas, Nahum, Habakuk, Zephonias, Haggæus, Sacharias, Malachias.

24. Mier syniſt, sem hier vanti nockrar af þeim, sem eg finn þo i minne Bibliu, so sem Tobiæ og Judiths Book, Viisdoomsins, Syrachs og Baruchs Book, og þær stuttu Historiur umm Susannam og Drekan i Babylon, Maccabæanna Bækur, og Manasſis Bæn?

Þessar siidustu Bækur eru ei sem hinar, adrar Canoniskar edur Reglu-riettar, og af Guds Anda innblaasnar; helldur nefnast þær, sokum ad-greiningar, Apocryphiskar, edur Huldar; þvi þær eru ei sama gildis og Myndugleika, þoott þær hafi inni ad hallda nockrar goodar Lærdooms Greinir.

25. Hveriar eru Bækur nya Testamentisins?

Þeir fioorir Guds-spiallamenn, Matthæus, Marcus, Lucas og Johannes, Postulanna Giorninga Book, og þeirra Pistlar, edur Sent-i-Bref, nefnilega: Sancti Pauls einn til Roomveria, tveir til Corinthia, einn

til Galata, einn til Ephesea, einn til Philippensa, og einn til Colossanna, tveir til Thessalonikanna, tveir til Timothei, og einn til Titi, einn til Philemons, og einn til Ebreanna. So og sio almennilegir Pistlar hinna Postulanna, nefniliga: einn Sancti Jacobs, tveir Sancti Peturs, og þriir St. Johannis, einn St. Judæ, og loksens er hin siidasta Book Bibliunnar Opinberanir Sancti Johannis. Allar þessar eru aun medala innblasnar af heilogum Anda.

26. **Enn hvad er þad mergur og styttsta Innihalld allra Bibliunnar Booka?**

Þad er sa ypparlegi Sannleiki, ad Jesus er Christur, Veguriin, Liifid og Sannleikurinn til Salahialparinnar ollum riettrwudum Saalum.

Joh. 20, 31. Enn þessir hlutir eru þvi skrifadir, ad þier trwid, þad Jesus Christus sie Guds Sonur, og at þier, sem trwid, skulud hafa Liifid i hanns Nafni.

27. **Hvada Mismunur er a Lærdoominum gamla og nya Testamentisins?**

J gamla Testamentinu vitnudu Spaamennirnir, med Spaadoomum og Fyrirmyndunum umm Christum, sem koma skyllde; enn i nya Testamentinu vitna Gud-spiallarar og Postular, med skiirum og skilianligum Ordum, umm hann i Heiminn komin.

28. Hver-

**28. Hvernin geta þeir wngu og einfelldu fundid þennan Kiarna Ritningarinnar, þvi hwn er so stoor Book?**

Þeir geta fyrst hiaalpad sier vid sæliga Doctor Luthers Catechismum.

**29. Hvad er Catechismus?**

Hann er sem liitil Biblia, edur stutt Innihalld af Guds Orde, umm vora Trw og Frammferdi, innibundid i Spurningum og Andsvorum.

**[30 Hvad hefur Lutherus sett yfir sierhvernPart siins litla Catechismi til uppbyggiligrar Æminniingar?**

Þau Ord: Hvernin sierhver Hus-Fadir ienfalldliga egi ad uppfræda sitt Heima-Foolk.

**31. Er þad þa allra Husbænda Skyllda?**

Ja vissuliga.

5 Mos. B 6, 6.7. Þessi Ord, sem eg byd þier i dag, skalltu legaia uppa Hiartad, og þu skallt bryna þau ætid fyrir Bornum þiinum, og ræda umm þau, þaa er þu situr i Hwsi þiinu, og þaa er þu geingur umm farinn Veg, og þaa er þu leggur þig nidur, edur stendur upp.

**32. Eru margir Hefud-Partar Frædanna, edur Catechismi?**

Fimm, af þeim hendlar hinn fyrsti umm Guds Tiu Laga Bod-Ord, annar umm Trwar-Jaatninguna, þridie umm Drottinlega Bæn, fierdi umm Sacramentum Skiir-

narinnar, fimti umm Sacramentum Alltarisins. Þar ai eptir fylgir Hwss-Tablan, sem innehelldur hvers eins Manns Skylldu eptir hanns Standi, og hwn finst hier indfærd i fioorda og siotta Bod-Orde.

33. Verdur Þetta ei i færri Ordum inni-bundid?

Iw, Þvi allt Inn-tak Frædanna tilhlydir annadhvert Logmalinu edur Evangelio.

34. Hvad er Løgmaalit?

Sai Lærdoomur, i hverium Gud synir oß sitt Riettlæti, kennir oß hviliikum oß hæfir at vera, hvad vier eigum at giora, og oognar oß ef vier forsoomum Þad, edur giorum Þvi Þvert ai moot.

35 Hvad er Evangelium?

Sai Lærdoomur i hverium Gud synir oß siina Hiarta Giædsku og Miskunsemi i Christo, tilbydur oß hana, kennir oß hvad vier eigum at trwa, og heitir Þeim Raad, er hlydnast honum i Trwnni.

36. Hvad merkir eginlega Þad i vorri Twngu framandi og ookenda Ord Evangelium?

Gledilegan Bodskap.

37. Hvar I Frædunum er høndlad umm Evangelium?

I fioorum siit ustu Hofud-Portunum.

38. Hvar i Frædunum er hønd lad umm Løgmaalid?

I fyrsta Partinum.

Saa

# Saa fyrsti Parturinn.

## Umm

# Logmaalid.

39. Hvad margfallot Løgmaal gaf Gud i gamla Testamentinu?

Þrennslags, sem var: 1.) **Ceremoniu** edur Kirkiu-Logmaalid. 2.) Þad **Verdsliga**, Dooma og Stioornunar Logmaalid. 3.) Sidsemda edur hid almennilega Kiærleikans og Lifnadarins Logmaal.

40. Stendur Ceremoniu, edur Kirkiu Løgmaalid enn nu vid magt?

Nei, þess Ceremoniur og Offranir voru einasta Evangelislar Fyrirmyndanir, uppaa Christum, sem þær hefur afmaid med sinni hingad komu. Col. 2, 16. 17. Ebr. 10, 1.

41. Stendur Dooma edur Stioornunar Løgmaal Gydinga enn nw vid magt?

Ney, þad var eins og Ceremoniu Logmaalid, alleina wtgefid Gydingum til eins viss Tiima; enn nw er sierhverium Christnum Manni viisad til Landslaganna, sem hanns Yfirvalld wtgefur. Rom. 13, 1.

42. Stendur þaa ei helldur Sida Løgmaalid leingur vid magt?

Jw vissuliga, þvi þetta Logmaal er grundvallad aa Guds heilogu og riettlaatu Naaturu, og þar fyrir er i þvi innifalinn Guds oora-

ſkanlegi og ſtadfaſti Vilje til allra Manna aa ollum Olldum, ſem er Elſkan til Guds, ſialfs ſins, og Naꝛungans.

43. Hvernin hefur Gud opinberad þetta ſitt Løgmaal, og oo-raſkanliga Vilia?

Hann hefur med Skøpuninne innrætt þad i allra Manna Hiørtu, og þvi kallaſt þad Naturunnar Løgmaal. Rom. 2, 15.

44. Hefur Gud ei Ordryis opinberad ſitt Løgmaal?

Jw, hann hefur og ſo utvortis ſiinelega udgefed þad og ſkrifad aa tvær ſtein-toblur.

45. Hvar utgaf hann Løgmaaled?

Aſiallenu Sinai, med Reidarþrumum og Eldingum, til merkis umm hanns brennande Vandlæte moote yfertrod ſiu Monnunum.

46. Kunnum vier af Þeſſu Løgmaale ad verda Saluhølpner?

Nei, þvi eingin ſiidan Syndafalled gietur til fullnuſtu halded þad.

Rom. 8, 3. Hvad Løgmaalenu var omøgulegt, med þui þad veikteſt fyrer holded, þad giørde Gud, ſem tendeſinn eigin Son.

47. Stodar Løgmaaled oſs þa ecke neitt?

Jw, heil-myked.

1 Tim. 1, 8. Vier vitum Løgmaaled er gott, ef nockur brukar þad rietteliga.

48. Hvad er þa Løgmaalſins Brukan og Nytſemd?

1) Yferbeviiſar þad þeim yferbootarlau-

ſu

su Synder þ:irra, og Reide Guds yfer Synduuum.

Rom. 3, 20. Fyrer Løgmaaled kemur Vidurkenning Syndarennar.

2) Þreinger þad og rekur oß efter þeim sañydrande ad leita efter JEsu.

3) Underviisar þad þeim truudu hvad þeir eiga ad giøra og laata o-giørt.

Ordsk. 6, 23. Þvi Bodorded er Skridlios, og Løgmaaled Lios, og Hirting Typtunarinnar er Vegur Lyfsins.

49. Eru þa Þeir truudu Løgmaalenu undervorpner?

Nei, ekke Løgmaalsins Kuugan og Formæling, þvi þar fra hefur JEsus þa endurleist.

Rom. 6, 14. Þier erud ei under Løgmaalenu, heldur under Naadene.

1 Tim. 1, 9. Hinum Riettlaata er ekke sett Løgmaaled.

50. Er þa eirn Riett truadur ei skyldur til ad lyfa efter Løgmaalenu?

Ju vissuliga.

Rom. 3, 31. Giørum vier þa Løgmaaled ad eingu fyrer truna? fiærre sie þvi, heldur stadfestum vier Løgmaaled.

51. Hvornin oß eg adskilia þetta, er mier synest undarlegt?

Adgiæt þetta tvent. Hver riett-truadur Christen er fri fra Løgmaalsins Bolvan og þeß Underokan, enn ei þeß hlidne,

 þad

þad er, hann giører þad sama sem Løgmaa-
led utheimter, þo ei Vegna þvingunar Løg-
maalsins, edur af otta fyrer þess Bolvann,
heldur sokum þess ad Kiærleleike Christi
þvingar hann þar til, og þa hann Ovilian-
de af Breiskleika mis-sier sig, hæfer Løg-
maalsins Bolvan hann alldeiles ecke, þvi
hann er i Christo. Rom. 8, 1.

52. Er Løgmaaled ánægt med ytre Verken?

Ney, Løgmaaled er andlegt, og krefst þvi
alls Mansins med Lykama, Saalu, Sin-
ne, Til-hneigingu og øllum Kroptum.

Rom. 7, 14. Þvi vier vitum Þad ad Løgmaaled er
andlegt, em eg eirn holdlegur under Syndena seldur.

53. Hvernin sundur skiptist Guds Løgmaal?

J tvær Toblur, af hvorium su fyrre inne-
heldur þriu, enn hin siidare sio Bodord edur
Skipaner.

54. Hvad er Løgmaalsins stuttsta Innehald?

Ekkert annad enn Kiærleike til Guds, vor
sialfra og Naungans, þvi eg giøre o-giar-
nann a moote þeim er eg elska.

Rom. 13, 10. So er þa Kiærleikinn Løgmaalsins
Uppfilling.

1 Tim. 1, 5. Summa Bodorfins er Kiærleikurinn
af hreinu Hiarta, og af goodre Samvitsku og o-mein-
gadre Tru. 1 Cor. 13, 1. 2. 3.

## Um fyrre Bodorda Tobluna.

55. Hvad er Innehald fyrre Toblunnar?

Kiær-

Kiærleikenn til Guds, sem kienner mier alla mina Skyldu vid hann.

Luc. 10, 27. Þu skalt elska Drottin Gud þinn, af ollu Hiarta þinu, af allre Saalu þinne, af ollum Mætte þinum, og af ollu Hugskote þinu.

## Þad fyrsta Bod-Orded.

## Þu skalt ecke hafa annarliga Gude fyrer mier.

56. Hvad er þad?

Vier eigumm yfer alla Hlute framm Gud, ad oottast hann ad elska og aa hañ eirn ad trua.

57. Hvoriu aa eg ad Giefa giætur ad i þeßu og: Odrum Bodordum Guds?

Tveimur Hlutum, nefnelega: þvi vonda, sem er bannad, og þvi gooda, sem þar a moot er skipad.

58. Hvad er þad vonda, sem i þeßu Bodorde verdur bannad?

Ad fremia Afguda dyrkan.

59. Hvad er Afgud?

Alt þad sem madur dyrkar, oottast elskar og truer aa i staden þeß einasta saña Guds.

60. Hvornin verdur þeße Afguda-Dyrkan framinn?

Annad hvert opinberliga, edur heimugliga med Kiænsku.

61. Hver su skier su opinbera Afguda-dyrkan?

Þa Madur tilbidur Sool, Tungl, Stiornur,

nur, Bilæte, Eingla, edur dauda Helga Menn, hvert ꝏ moote Guds Orde.

Es. 42, 8. Eg er Drottinn, þad er mitt Nafn, og mina Dyrd vil eg eingum ødrum gefa, nie mitt Lof Afgudunum.

62. Enn maa Madur ei med Bilætes Lotning tilbidia þann sanna Gud og meina sialfann hann?

Ney, Gud er Ande, og þeir hann tilbidia, eiga ad tilbidia hann i Anda og Sannleika. Joh. 4, 24.

63. Maa Madur ei bidia Eingla, edur dauda helga Menn ad bidia fyrer sig til Guds?

Aungvan vegen, þvi Gud vill einasta akalladur verda. Drottinn Gud þinn skaltu tilbidia og honum einum þiona. Matth. 4, 10. Þar ad auk er þad og forgiefens, þvi Abraham veit eckert af oß, og Israel þecker oß ecke. Es. 63, 16.

64. Hvornin driiger Madur þa heimugliga Afguda-Dyrkan?

Þa Hiartans Kiærleike, votte edur traust, snijst fra þeim lyfanda Gude, og verdur fremur aheingur ødrum Hlutumm, edur iafnt Gude.

65. Hvad marg Slags heimugliger Afguder eru þar til, sem kunna ad stela Hiortum vorum fra Gude?

Til hvilükra Afguda saum vier giört, annad hvort sialfa oß, edur adra Menn, Lyka adrar Skepnur, utvortis Guds-Dyrkan, edur og so Diofulinn.

66. Hvorn

66. Hvorſu giører madur ſialfañ ſig ad Afgude?

Þa madur elſkar ſig ſialfan um of, treiſter einaſta a ſialfañ ſig, og lætur Sialf-hælne Sier-Sinne, Abata, Siergiærde og Vellyſt, vera ſina einuſtu aiſtundan, ſo bæde Gud og Naunginn ſetiaſt til ſydu, og ſlikt ſkiedur.

1.) Med Sialf-hælne. Hvad hefur þu, ſem þu hefar ecke þeiged? enn hafer þu þad þeiged, þvi hrooſar þu þier þa, ſo ſem þu hefder ecke þeiged. 1 Cor. 4, 7.

2.) Med Sierſinne edur Sialfræde. Þvermodſka er Galdra Glæpur, og ad hal[illegible] ſa aſram Afguda-Dyrkan. 1 Sam. 15, 23.

3.) Eiginn Lyſt og Gyrugleike. Marger umgangaſt, ſem Oviner Kroſſins Chriſti, hverra Endalok Fardiørſunin er, og hvorra Gud Magin er. Phil. 3, 18. 19.

67. Er þa øll Sialfs-Elſka Afguda-Dyrkan?

Ney, ecke utan ſu maatalauſa og o-reglulig a, ſem upphefur ſig yfer Gud, og vil ei af hiarta beigja ſig under han, og jata ſig eckert ad vera, enn Gud ad vera þad ædſta Gooda.

68. Hvorninn fær Madur giørt Meñena ſier ad Afgud?

Þa madur annad hvort af Ofbrædſlu, Elſku, edur Trauſte til þeirra, forſoomar ad Gooda, enn giører hid Vonda.

Jer. 17, 5. Bølvadur er ſa Madur, ſem reider ſig a Manneſkuna, og hefur Holded fyrer ſinn Armlegg, og hvørs Hiarta viſkur ſra Drottne.

69. Hvornin gietur madur giört adrar Skepnur sier ad Afgudum?

Þa madur elskar þar so um of, ad til þeirra hneigest fra Gude Hiartans einasta Glede, Huggun og Athvarf, hvort ed audsienast er hia Agiornum, sem vilia þiena Gude og Mammon, og kallast þvi Afguda-Dyrkarar.

Col. 3, 5. og Eph. 5, 5. Þvi þetta meiged þier vita, ad eingin Fridlulysis Madur edur Ohreinn, edur Agiarnn, sem ad er Afguda-Dyrkare, hefur Arvtökn i Ryke Christi og Guds.

1 Tim. 6, 17. Biod þeim Ryku þeßarar Veraldar, ad þeir stære sig ekke, ei heldur setie Von til þeß ovisa Rijkdoms, heldur til þeß lyfanda Guds.

70. Hvorsu fremur madur Afguda-Dyrkan med utvortis Guds-Þioonustu-giörd?

Þegar madur midt i sinu ydrunarleise reider sig einasta a Kyrkiu-Gongu, Skriftarmal, Altaris-Gongu, Olmußur, Bæner, Saungva, Lestra og þeß konar Verk, sem einasta eru good fyrer ydrande Manneskur, enn onijt fyrer Hræsnara.

Jer. 7, 45. Reided ydur ei a svikfamleg Ord, ad þeir segia, Drottins Mustere, Drottins Mustere, Drottins Mustere eru þeir, heldur ef þier alvarliga betred ydar Veau og Jþrotter.

Es. 1, 15. Þo þier utbreidid ydar Hendur, þa vil eg byrgia min Augu fyrer ydur, þvi ydar Hendur eru fullar af Bloode.

71. Er

71. Er þar þa nockud Afgudsligt i vorre opinberre Guds-Þioonustu-giørd?

Ekkert i sialfu sier, enn med Vanbrukanenne kunna allar Skepnur gioraſt ad Afgudum, sem aadur er sagt.

72. Hvad kemur þa Manne til þvilijkrar Vanbrukunar?

Þad giører sierdeilislega Andvaraleiſe, sem ætid vill hafa sier eitthvad til ſtudnings. Þaa ſu hinn Ogudligu verdur sakfeldur af ſinne eiginn Samvitsku, enn vill þo ei, af Alvoru, ſnua sier til Guds, ſo ſnijr hann sier þvi þraadara, med Athvarf ſitt til Skriftarſtoolſins, Altariſins og utvortis Tijdkunar, og leitar þar i Hælis fyrer ſina ſyndugu Saal, ſo ad þad ſem i ſialfu sier er heilagt og gott, verdur honum ad Afgude, þad er, ad Mootſtodu og Hindran fra þeirre riettu Guds-Dyrkan i Anda og Sannleika, er honum ſkyllde þo vera ſu rietta Uppørvan þar til.

Luc. 13, 26. 27. Þa ſkulu þier taka til ad ſegia: vier ætum og druckum fyrer þier, og þu kiender æ voꝛum Gøtum, og hann mun ſegia, eg þekke ydur ekke hvadan þier erud; vijked fra mier, ſem idked ydur Ranglætenn. Siaa fremur Matth. 7, 21. 22. 23.

73. Kann madur og ſo ad giøra Dioſulin ad ſinum Afgud?

Jaa, aller þraalaater Synda-Þrælar eru

un-

under eins Diöfulsins Þrælar, og hañ þeirra Gud og Herra.

2 Cor. 4, 4. Þesßrar Veralldar Gud hefur forblindad þeirra Vantruar Sinne. Rom. 6, 16.

74. Vier høfum þeirt þad Vonda, sem oß er bannad, seig mier lyka þad Gooda, sem oß er skipad i fyrsta Bodordenu?

Vier eigum yfer alla Hluta fram̃ Gud ad oottast hañ ad elska og a hañ eirn ad trua.

75. Þeß æltur Gud einasta vort Hiartalag til sin?

Jai, þvi hann seger Ordsk. 23, 26. Miñ Son, gief þu mier þitt Hiarta.

76. Gietur nockur riettelega oottast, elskad og truad a Gud, medañ hañ ekke riett þecker hañ?

Ney, þad er omøguligt; enn þekkium vier hans Riettlæte, þa oottunst vier hann; hans Giæsku, þa elskum vier hann og hans Almætte, þa treistum vier honum og truum a hann.

77. Þetta vita raunar flest aller um Gud, enn munu þeir þar fyrer oottast, elska og trua a hañ?

Ney, þvi flestra Þekking er daud og magterlaus.

1 Joh. 2, 4. Hvor sem seger: eg hefe þekt hañ, og helldur ekke hans Bod, hañ er eirn Lygare, og i honum er ekke Sañleikuriñ.

78. Hvilijk er su rietta lyfande Guds Þekking?

Su er hrærer vor Hiortu til ad elska Gud,

og

og ad fyrer verda oß ad giora þad Vonda i hans heilogu Närlægd.

1 Joh. 2, 3. Þar af vitum vier, ad vier høsum Þ:kt hann, ef vier rækium hans Bod.

79. Er Þad ekke best ad halda vid Einfaldleikann?

Ju, enn ey i Vankunnattu og Blindne.

Rom. 16, 19. Eg vil ad Þier sieud viiser i Þvi gooda, enn einfalder i Þvi vonda.

80. Hvad er su sanna Einfeldne?

Ad madur i trunne beint aframa medtake allt þad madur er viß um ad Gud hefur opinberad og þad ann Þeß ad hnysast þar i med hofdligre Skynseme.

81. Hvoriu orkar Þa su sanna Guds Þekking?

Ad madur viist oottast, elskar og reider sig a Gud, þann sem hann rietti Þ:kker.

82. Hvad er ad oottast Gud?

Þad er ad fyrerverda sig fyrer Guds allra heilogustu Hatign, so madur er kviidande og hræddur fyrer ad uppegna hans Riettlætis Reide med nokkre Synd.

Matth 10, 28. Oottest ei Þa er Lykaman deyda, enn kunna ei deyda Saalena, enn oottest heldur Þann, sem kann ad fordiarfa bæde Saalu og Lyf i Helvyte.

Phil. 2, 12. Werked ydar Saalu Hialp med Ootta og Titran.

83. Er Margslags Guds Ootte til?

Tvenn Slags, Þrælddoms Ootte og sonarligur Ootte.

84. Hvad

84. Hvad er Þrælddoms Otte?

Það að maður einaſta Ottaſt Gud vegna Straffſens Elſku og Truarlauſt.

1 Joh. 4, 18. Otte er ekke i Kiærleikanum, helldur burtdryfur riettur Kiærleike Ottanum, þvi Ottinn hefur Kvøl, enn hver ſem oottaſt, er ekke fullkomin i Kiærleikanum. Sia fremur. Job. 15, 29. og Spek. B. 17, 11. 12. 13.

85. Hvad er ſonarligur Otte?

Það að maður af Elſku til Guds, er Kviidande fyrer að giora honum aa moote, jafnvel þott hann ætte ſier einkis Straffs að vænta.

1 Moſ. B. 39, 9. Hvi ſkyllda eg drygia þa myklu Vondſku, og ſyndga aa mooti Gude?

86. Hver þeſtra tveggia Otta finſt hiaa riett Chriſtnun?

Saa ſonarlige Ottinn tilheyrer þeim eiginliga, ſo ſem Guds Bornum, þo blandaſt hann ſtundum med nokkru af Þrælddoms-Otta, ſierdeilis Afreiſtingarinnar Tiima.

Rom. 8, 15. Þier medtookud ekke nokkurn Þrælddoms Anda aftur til Otta, helldur medtookud þier ſonarligann Utvalningar Anda, fyrer hvoru vier hroopum: Abba Fader.

Matth. 8, 26. Þvi ſkielfeſt þier Liitil-truader?

87. Hvar af þecker maður þaa eina Gud hrædda Manneſkiu?

Þar af, að hun hatar og fordaſt Syndena ſem þann ſtærſta Ovin, og afber aungvann vegen

vegen i sinu Hiarta ad giora viis-vitande illt.

Ordsk.8,13. Drottins Otte er ad hata hid vonda.

88. Eru þeir ekke aller Gudhrædder, sem lesa, bidia og syngia miøg?

Ekke alltiid, þvi þeir eru til, sem hafa Yfirskin Gudhrædslunnar, en neita hennar Krapte. 2 Tim.3,5.

89. Hvadan hefur su sanna Gudhrædne sinn Uppruna?

Af Tru og Kiærleika, sem verkar soddan Ummhyggiu fyrer þvi ad þoknast þeim gooda Fodur.

90. Hvad er þad þar ad elska Gud?

Þad er, ad vier yfer allt metum hann, og innelega laange efter honum, leitum einasta vorrar riettu Glede og Roosemdar i honum, og befolum oss alldeilis hans þægelegum Vilia.

Psal.18,2.3. Drottin, eg hefe þig hiartanlega kiærann, minn Styrkleike.

Psal.73,25.26. Hvern hefe eg i Himnenum, sem til þin, hefe eg ekke Lyst til nockurs aa Jordu. Þo mitt Lyf og Saal vanmegnest, so er Gud mitt Hiartans Traust og Arfskipte eilliflega.

Psal.42,2.3. Sem Hiorten þyrster efter ferska Vatne, so þyrster mina Saalu til þin, o Gud! mina Saalu þyrster efter Gude, efter þeim liifanda Gude, nær mun eg koma þaangad, og siaast fyrer Guds Auglite?

91. Hverso heitt skulum vier elska Gud?

Yfer alla Hlute framm, þar hann er þad ædsta Gooda. Matth.

Matth. 10, 37. Hvor sem elskar Fødur eda Moodur meir enn mig, hann er min ecke verdugur. Sia fremur Luc. 10, 27.

92. Gietur madur þa ei bæde elskad Gud, og Heimsins syndugt hattalag?

Ney.

1 Joh. 2, 15. Elsked ekke Verøldena, ekke heldur þa Hlute, sem eru i Verøldunne, ef nokkur elskar Verøldina, i honum er ekke Kiærleike Fødursins.

93. Hvørs vegna eigumm vier ad elska Gud?

Fyrst vegna þeß, ad hann er fullkomlega Goodur i sialfum sier, þar næst þvi hann er so goodur og elskuriikur vid oß, sem dagliga niootum hans Velgiørninga.

Matth. 19, 17. Einginn er goodur, nema eirn, sem er Gud.

1 Joh. 4, 19. Vier elskum hann, þvi hann elskade oß ad fyrra bragde.

94. Hvar af siest þad ad madur elskar Gud?

1) Af gudrækelegum Lyfnade.

Joh. 14, 21. Hvør sem hefur min Bod og heldur þau, hann er saa mig elskar.

2) Af Elsku til Naungans.

1 Joh. 4, 20. Ef nokkur seger: eg elska Gud, og hatar sin Broodur, hann er eirn Lingare, þvi hver sem ekke elskar sinn Broodur þan hann hefur sied, hvernig gietur hann Gud elskad, þan hann hefur ekke sied.

3) Af Efterlangan til Orda Drottens, og Ummgeingne med honum i Bænenne.

Psal. 73, 28. Þad er mier noog ad eg halldе mier nalægt ad Gude.

95. Gie-

95. Sietur þu elska Gud af eigin Mætte þinum?

Ney, Guds Ande verkar Kiærleikan i mier.

Rom. 5, 5. Guds Kiærleike er utausenn i vor Hiörtu fyrer Heilagan Anda.

96 Er nokkur Nytsemd i þvi ad elska Gud.

Ja, allra stærsta Nytseme, þvi vier vitum ad aller Hluter þiena þeim til þins Gooda, sem Gud elska. Rom 8, 28.

97. Meiga þeir, sem elska Gud, oprigdult reida sig a hann?

Ja.

Psal. 84, 12. 13. Drottin Gud er Sol og Skiolldur. Drottin mun gefa Naad og Heidur, hann mun elngu goodu neita þeim, sem framganga fromlega. Drottin Zebaoth; sæll er sa madur, sem vonar aa þig.

98. Hvad er þad, a Gud eirn ad trua?

Þad er i fullu Trunadar Trauste ad afhenda sig Guds Forsia, vænta alls Goods af honum, og afhenda honum sitt Maal-efne.

Ordsk. 3, 5. Vona þu a Drottin af öllu Hiarta þinu, og reid þig ei a þ.na Skiln'eme.

99. Maa madur þa ekke reida sig a Mennena?

Ney, þvi offt annad hvert vilia þeir ei, eda gieta ekke hialpad.

Psal. 146, 3. 4. Reided ydur ekke a Höfdingiana, a Mansins Barn, hia hvoriu ad er eingin Frelsan.

B    100. Þvi

100. Þvi a madur þa ad reida sig uppa Gud?

Þvi hann er vor almættuge og trufaste Vinur.

Psal. 146, 5. 6. Sæll er sa, hvors Hialp Jakobs Gud er, hvors Von er til Drottins hans Guds, sem giørde Himnenen og Jørdena, Hafed og allt þad þar er inne. Hann sem heldur Lofan eylijflega.

101. A madur ſa einasta þegar velgeingur ad reida sig a Gud?

Ney, ſierdeiles i Neydenne.

Psal. 57, 2. Min Saal reider sig uppa þig, og eg reide mig a Skugga þinna Vængia, þar til Olukkan er hialidinn.

102. Maa madur ohult reida sig a Gud; þa madur vijsvitande sialfur stofnar sier i Hæskann?

Ney, þvi þad er Ofdirfd.

Matth. 4, 7. Þu skalt ei freista Drottins Guds þins.

103. Hvada Dygder tilheyra frammveges fyrsta Bodordenu?

Þegar madur oottast og elskar Gud yfer alla Hlute framm, treistande honum alleina, þa fylger þar med ſierdeilis Audmykt, Þolinmæde og Afneitan sialfs sins.

104. Hvad er Audmyktenn?

Hiartans grundvollud Yferbevijsing, og sialfs sins Overdugleika Tilfinnuung fyrer Gude, ad hafa forskuldad þa minstu Naad, Æru, Hroosan eda Upphefd.

1 Pet. 1, 5. 6. Verid priidder med Audmyktenne, Pvi Gud motstendur Dramblatum, enn Litelaatum gefer hann Naad.

105. Hvad er Þolinmæden?

Ad madur vegna Guds Viilugliga take a moote uppalogdum Mootlætingum, þot þær finnest Helde og Blode erfidar, so madur aun Moglnnar, ja med Þakklæte lyde þar þolinmodlega þar til Gude þoknest ad giora Umboot a þeim.

Jac. 1, 2. 3. 4. Brædur miner! haalldid þad fyrer allskonar Glede, þa þier falled i adskilianlegar Freistingar, vitande þad, ad Reinslan ydar Truar verkar Þolinmæde, enn Þolinmædene fylger fullkomiun Verkan, at þier verded fullkomner.

106. Hvad er Sialfs-Afneitan?

Þad ad madur setie sialfann sig til siidu, edur afneite sinne eigenn Vild, og ollu þvi, hann hefur þoknan til i Heimenum, til þess alleina ad Guds Vilie mege i honum Framgang fa.

Luc. 14, 26. 27. Ef nokkur kiemur til min, og hatar ekke (þad er, afneitar eda minna elskar) Fedur og Modur, og Hustru, og Born, og Brædur, og Systur, og þar hia sitt eged Lyf, hann getur ekke vered minn Lærdomsveinn, og hver sem ekke ber sinn Kross og fylger mier efter, getur ei verid minn Lærdomsveinn.

## Þad annad Bodorded.

Þu skalt ecke leggia Nafn Drot-

tins Guds þins vid Hiegoma, þvi Drottin mun ei lata þann ohegndann, sem brukar hans Nafn hiegomlega.

Pader:

Vier eigum ad oottast og elska Gud: Eingum eigumm vier ills ad bidia i hans Nafne, eige sveria vid þad nie Fiolkinge fremia, eige liuga nie svikia, heldur eigum vier Guds Nafn ad akalla i aullum vorum Naud synium, þad ad tilbidia, lofa þad og þvi þakker ad giora.

107. Hvors vegna stendur upphafliga i þessu og hinum Bodordunum þad, vier eigum ad oottast og elska Gud?

Vegna þess, ad oss verde þar med synt ad eingar Christendomsens Dygder eiga ad vera einungis utvortis Lotning og Hæferskt Riettlæte, helldur eiga þær ad frammkoma af innra Mansins elsku-riiku og Gudhræddo Hiarta. Þær eiga ad vera rietter Truarennar, Kiærleikans og Gudhrædslunnar Avexter, ef þær skulu þoknast Gude, og vera betre Phariseanna Riettlæte.

108. Hvad illt er bannad i ødru Bodordenu?

Ad leggia Guds Nafn vid hiegoma.

109. Hvad er Guds Nafn?

1) Þau eiginlegu sierdeilis Nøfn, med hvo-

hvorium hann verdur nefudur i Riettningunne, so sem Jehova, Gud, Drottinn, Fader, Sonur og Heilagur Ande, JEsus Christus, og þeßkonar fleire.

2) Alt þad Gude tilheyrer, hvar af hann þekkest so sem ein Madur þekkest af sinu Nafne. Hier til heyrer hans sialfs Vera, Eiginlegleikar, Hattign Verk, Ord, Sacramentin, og alt þad, sem tilhlyder hans Dyrkan. Psal. 48, 11.

110. Hvornin verdur Guds Nafn lagt vid hiegoma?

1) Þa madur sleinger saman vid hvors Dags Rædu Guds Nafne, Grein heilagrar Rittningar, Verse af gudligum Psalme, edur nokkru andligu, efter þankalaust og hiegomlega, til Skemtunar eder Mailtækis, an Bligdunar og Andagtar. Eitnin þa madur kastar Guds Verk.

2) Þa madur samblandar þeßu blessada Nafne vid bølvud Ord og Athafner, brukande þad til Formælinga, Eida, Galdra, Lyga og Svika.

111. Hvad er ills ad bidia i Guds Nafne?

Þad ad ofta sier eder sinum Naunga, ills i þeßu agiæta Nafne, ja þad ad margur Guds Ovin dyrfest ad hæda þann allra hædsta sialfann.

Jak. 3, 9. Med Tungunne dyrkum vier Gud og Fodurinn, og med henne formælum vier Mennunum, sem eru giørder efter Guds Mynd, af heim sama Munne framgeingur Blessan og Bolvan. Bræður miner! þessum Hlutum hæfer ei so ad vera.

112. Hvad er ad sveria?

Þa madur vitnar til Guds Nafns, og so þannig kreffst Guds til Vitnis og Doomara sins Mœalesnes.

113. Er þa aldrig leifelagt ad sveria?

Ju, i stærstu Naudsyn, nefnelega, þa Yfervalded Guds Vegna kreffst þess, og Sanmleikurinn kann ei annars ad leidast i Lios, þa er þad eitt af Kiærleikans Verkum.

Ebr. 6, 16. Mennerner sveria ad sönnu vid annan ædre, og Eidurin er þeim ender allrar Krætu, til Stadfestu.

114. Eru þa aller Eidar i dagligre Samræðu Synd?

Jæ, stoor Synd, þott hun sie litelsvirdt.

Matth. 5, 34. 37. Eg sege ydur, þier skulud alldeilis ekkert sveria, heldur skal ydar Rœde vera jaa, jaa, nei, nei, enn hvad þar er ad auk, þad er af þeim Vonda.

115. Enn ef madur vill ei trua mier fyrir ia og ney?

Þa æ eg ad hugga mig þar vid, ad mitt Vitne er i Himnenum.

116. Er þa Synden eins stoor, og eg sverie af Asetninge, segar eg sver af Avana og Ordalage,

ge, fierdellis Legar eg hefe Riett uppa ad stande?

Jaa vissuliga, þvi synd samligur Avane syner þad, ad Synden drottnar yfer mier.

Syr. 23, 11. Ven ekke þinn Munne vid ad sveria, og ven þig ei aa ad nefna þann Heilaga, þvi eins og saa Þion, sem oft verdur stryktur, er ei aan Rispu, so er og ekke saa sem sver og nefner hann alltiid, fri fyrer Synd. Saa Madur er sver mykelega, mun uppfyllast med Oriett, og Plaugur munu ei vykia frau hans Hydbyle. Mis siae hann sig þar i, þa er hans Synd yfer honum, enn Hyrde hann ei þar um, þa syndgade hann tvøfaldt.

117. Hvad er ad fremia Fiølkinge i Guds Nafne?

Þad er ad vilia med Guds Nafne, Greinz Ritningarennar, edur nokkru Ordu, sem tilhlyder Guds Þioonustu-giord, Lækna Menn edur Fenad, signa edur særa, senda aftur, edur ydka nokkru Hiatru.

5 Book Mos. 18, 10. 11. 12. Hia þier skal ei finnast Spaasagnare, Dagveliare, edur saa sem merker Fugla Kvak, edur Galdra-Madur, edur Særinga-Madur, edur Teikna Tulkur, edur Sannsagnare, edur saa sem frietter þa daudu ad, þvi hver sem soddan giører, er Drottne Vedurstiigd.

118. Leisest Manna ei ad leita Raada til fiølkunugra, edur Viisenda-manna, er so kallast?

Ney, aungvan vegen.

3 Book Mos. 19, 31. Þier skulud ei snua ydur til

Spaa-Kvenna, og ei leita til Spaasagnar-manna, ad saurga ydur aa þeim, jeg er Drottinn ydar Gud.
Ezech. 14, 10.

119. Þarf Madur ei ad hrædast Galdra-Menn?

Ney, þvi þeir gieta ekkert aan Guds Tilslaatsene, giort þeim truudu.

120. Hvornin vanbrukast Guds Nafn til ad liuga og ganta edur sviikia?

1) Med fölskum Lærdome, þa madur brukar Guds Ord til Yferhylmingar falskre Kienningu.

2 Tim. 3, 13 Þeir vondu Menn og Sviikarar fara affram til hins verra, þeir sviikia og verda sviikner.
2 Pet. 3, 16.

2) Med Hræsne, þa Madur midt i sinne Vondsku vill synast ad vera Gudhrædbur, vegna þess hann idkar Lestra og Saungva, edur talar umm Guds Ord.

Psal. 50, 16. 17. Hvad kiemur þad þier vid ad forkelja mina Sidu, og vilt þu taka minn Saat-maala þier i Munn, efter þvi þu hatar Tifftunena, og kastar minum Ordum aa bak þier aftur.

121. Hvers maa sa vænta sier, sem med nokkurt soddan slag, leggur Guds Nafn vid Hiegoma?

Stors Straffs, bæde timanlega og eylyflega, þar ed Drottinn vill ei laata þann oohegndann, sem leggur hans Nafn vid Hiegoma.

122. Hvad

122. Hvad er pad Gooda, sem oß er skipad i ødru Bodordenu?

Ad vier i allskonar Neyd og Mootlæte eigum ad ákalla Guds heilaga Nafn, pad ad tilbidia, lofa pad, og hvi Þakker ad giøra.

123. Hvad er pad ad tilbidia og ákalla?

Bænen er Christens Mans ídulig Eftirleitne vid Gud.

1 Thess. 5, 17. Bidied aan Aflaats.

Enn Aakallan er ákof Bæn, sem upptendrast af Hiartanu vegna Neidar og Angistar.

Psal. 50, 15. Aakalla mig i Neidinne, eg vil frelsa dig ut þadann; og Þu skalt vegsama mig.

124. Hvad er pad Gude Lof og Þaker ad giøra?

Pad fyrsta er ad þeckia Guds Fullkomlegleika og Giæsku i sialfum sier, og vegsama hann i sinu Hiarta. Pad annad, ad kannast vid hans Giæsku vid os, og prysa hann þar fyrer.

Psal. 103, 1. Min Saal lofa Drottinn; og alt pad, i mier er, hans heilaga Nafn, min Saal; lofa Drottinn, og gleim ei neinu af øllu Þoi Gooda, sem hann hefur Þier giørt.

125. Er enn þa fleira pad Goode, sem pad annad Bodord skyldar oß til?

Jaa, nefnelega med Lotningu ad hafa Guds Ord umm hønd, giarnsamliga hafa

Samhrædur umm þad, lesa kostgiæfeliga þa heilogu Ritningu, og ad medkienna Guds Sannleika oskelfdur, iafnvel i stærstu Hærska semd.

## Þad þridia Bodorded.

**Minst þu ad halda helgann Hviildardaginn (Drottins Guds þyns.)**

Þad er:

Vier eigum ad oottast og elska Gud, ad vier eige fyrer-liitum Predikun nie hans Ord, heldur eigum vier þad heilagt ad halda, giarnan heira þad og læra. Z ódnu keña,

126. Hvad er oss skipad i þessu Bodorde?

Ad hilga Hviildardaginn.

127. Hvar af hefur Hviildar-Dagurinn sitt Nafn?

Af Guds eiginn Hviild, þad er, Eviindis-Lokum, æ þeim siounda Deige, efter þad hann hafde æ undanfornum sex Dögum skapad Himen og Jørd. 1. Mos. Book. 2, 3.

128. Hvor er sa Hviildar-Dagurinn?

Hia Gydingum var hann sa siounde Dagur i Vikunne, æ hvorium Gud hviildest, enn hia oss er þad sa fyrste, æ hvorium Christur er uppreis fra Daudum.

129. Hvornin eigum vier ad helga Hvilldar-Daginn?

Soleidis, ad vier alleina hö/um þann Dag allann til heylagra Þanka, Orda og Verka, og vorrar eiginn Helgunar, Eflingar og Framkvæmdar.

130. Hvad efler og frammkvæmer vora Helgan?

Guds Orda kostgiæfeleg Heyrn, Lestur og Yfervegan bæde i Kyrkiunne og Heimahusum.

Joh. 17, 17. Heilage Fader, helga þaa i þinum Saunnleika, þin Ord eru Sannleikur.

131. Hvornin eigum vier ad heira Guds Orda Predikun?

Med Hiartanlegre Andagt, og sönnum Asetninge ad breita efter þvi sama.

Jac. 1, 22. Verded Ordsens Giorendur og ekke Heyrendur alleina, hvar med þier sialfa ydur aa taalar draged.

132. Fórum vier alleinasta til Kyrkiunnar til þess ad heira Predikunnena?

Ney, heldur og so til þess ad vegsama Gud, og upphvetia hvor annann til elskulegrar Umgeingne med honumm.

Col. 3, 16. Laated Christi Ord rykugliga bua ydar i midle i öllumm Visdome, kienned og aminned ydur sialfer med Psalmumm, Loffsaungum og andlegum Visum, i þvi þier synged unnunarsamliga fyrer Drottne i ydar Hiortum.

133. Er allt bued þegar soddan opinnber Guds-Þiønustu-giørd er endud?

Ney, vier eigum siidan med Bæn, Yfervegan og Rannsokun ad inþrickia Sannleikan eñ þa kroftugligar i vor Hiortu, og i þetta iñvortis Mustere, sem er eitt hoogvært Aude, þiona Gude, þakka honum, tilbidia hann, og lata hans Ord ganga ofs til Hiarta.

Luc. 11, 28. Sæler eru þeir, sem heira Guds Ord og vardveita þad.

134. Hvad illt er i þessu Bodorde bannad?

Ad vier ei skulum forakta edur forsooma Guds Ord, ei heldur lata ofs hindra i vorre Audagt af verslígum Hlutum.

135. Hvor forsoomar Guds Ord?

Sa, sem an nsannra Naudsynia situr heima, og fer ei til Kyrkiu a tilsettum Timum.

Ebr. 10, 25. Laatum ofs ei yfergiefa vora eiginn Samk. mu, sem nokkra Sidur er.

136. Hvor forakter Guds Ord?

Sa, sem under þess Heirn og Lestre þvætter, skfur, edur fyller upp Sinne sitt med annarligum þaunkum.

Præd. 4, 17. Vakta þiñ Foot þa þu vilt ganga til Guds Huss, og hallt þier nær ad heyra enn Daarinn ad offra.

137. Hvar med vanhelgar madur Hvildar-Daginn?

Med lykamligu naudsynialausu Erfide,

somu,

somuleidis synd samligum Skiemtunum, so sem Danse, Spilum, og odrum Apaskap.

138. Eru þa enginn utvortis Verk leifeleg a Sunnudøgumm?

Ju, sonn naudsynia Verk, sem ei maa aan vera, og Kiærleikans Verk, sem alltiid eiga ad æfast. Sia Luc. 14, 5. Matth. 12, 7.

139. Er þad ei nog Sabbats helgun ad madur gange idiulans?

Ney, madur a i þeß stad þvi kostgiæfelegar ad ummgangast med Gude i Hiartanu, og Hviild Lykamans a ad yta under Erviide Saalarennar.

140. Hvrsum vier þa vid þeßa virkuliga Sabbats?

Vor eigin Saalar Þorf aviisar os þa þigtugu Naudsyn þarrar andligu Hviildar og almenneligrar Uppbygingar.

# Su onnur Tablann.

141. Hvad er i Stuttu maale Innehald annrar Tøblunnar?

Elskañ til sialfra vor og Naaungans.

Matth. 22, 39. Þu skalt elska Naunga þiñ sem siasañ þig.

142. Er þad þa riett ad elska sialfañ sig?

Jaa, eñ ekke i oreglulegulegañ og syndsamlegañ Maata, þvi þa er Sialfs-Elska Orsok til alls ilis.

143. Hvar i er innefallenn sit syndsamlega og oreg-luliga Sialfs Elska?

J þvi þaa madur leitar sinnar eigin innbir-ladrar Nitsemdar, og Byrdingar, edur Skemtunar i þann Maata, sem mootstriider Guds Vilia, og hrekur Elsku Naaungans affiides.

144. Hvar i er innefalenn sit reglulega og saklausa Sialfs Elska?

J eirne af Gude innplantadre Efterlangan ad faa fram sinn a riettu Velferd og Saalu-hialp.

145. Til hvors skaltu þa hellst lijta og fyrer sorga ad faastann til Velferdarinnar?

Saalarinnar, so sem dyrmætasta og o-dandliga Parts.

Matth. 16, 26. Hvad stodar þad Manninn; þo hann avinne allann Heiminn, og leid þo Tiopun a a Saalu sinne.

146. Mea eg þa lyka sorga fyrer Lykamanum?

Jaa, i sinne riettu Nod og til Naud-þurftar.

Eph. 5, 29. Eingin hefur umm aldur sitt eiged Hold hatad, heldur nærer hann þad og fostrar.

147. Aa þa Holded ei ad krossfestast?

Ju vissuliga, þvi annars striider þad imoot Saalunne, efter þvi Synden byr i Holdenu, og nefnest Hold.

1 Cor. 9, 27. Eg underþvinga mitt Hold og læt þad þrælvera.

Col.

Col. 3, 5. So deided ydar Limu, sem eru i Heimenum.

Rom. 13, 14. Hafed ei Umhyggiu fyrer Holdenu til Gyrnda.

148. Hvad kiener mier hin önnur Tablan um þad sem aahrærer min Naunga?

Þad ad eg aa so ad vera sinadur vid han, og audsiina honum þad, sem eg vilde sialfum unerkiosa.

Matth. 7, 12. Hvad þier vilied Menerner giøre ydur, þad skulud þier þeim giøra, Þvi so er Logmaaled og Spaamenerner.

149. Hvorning get eg þa efter þessare Reglu fundeð hvad rett edur rangt er i Umgegne vid min Naunga?

Þegar eg set sialfan mig i Stad mins Naungo, og yfervega hvort eg vilde han slæge mig, bolvade mier, svike mig, stæle fraa mier, edur baktalade mig, og i þvi mins Sialfs-Elska seiger þar til ney, þa er hun mier ein Regla uppa Elsku til mins Naunga; hun siner og hvad Gott eg aa honum ad giøra, i staden þess Vonda.

150. Hvor er þa min Naunge?

Aller Men, hvort heldur þeir eru meire edur mine hattar, Christner edur Heidingiar, Vonder eda Gooder, Viner eda Ovinez, sierdeilis þeir vier vitum eru neidstadder, en kunum ad hialpa.

Post:

Post. Giorn. 17, 26. Oll Ætt manna byr yter Heim giørvallan af einu Blode. Luc. 10, 29.

151. Er Þar ei mismunur edur trøppuskil a Þeim Kiærleika sem madur a ad syna Naungaunum?

Ju, þvi þeß nær og fremur miñ Naunge er mier teingdur, annad hvert i lykamligan Maata ad Skyldugleik, Mægdum, Vinaattu, Naagrenne og tiedum Velgiordum, edur uppa andlega viisu vegna eirnar Truar, Vonar, Kiærleika og Alvørugiefnes i þvi ad leita Guds Rykis, þvi nakvæmligar er eg honum fremur odrum skyldugur um Ydkun Kiærleikans.

Gal. 6, 10. Þa Stund os giefst Time til, saatum os øllum giøra gott, enn sierdelis Þeim sem eru Trwarenar Heimkynis.

152. Er eg þa skyldur til ad elska ovin miñ sem sialfan mig?

Jaa.

Matth. 5, 44. Elsked ydar Ovine, blessed Þa, sem ydur bølva, gioreð Þeim Gott, sem ydur hata, og biðied fyrer Þeim, sem yferfalla ydur, edur ofsækia, uppaa Þad Þier verded Børn Fodurs ydar, sem er a Himnum.

153. Maa eg Þa ei hata Þann Oguðliga?

Ney, eg aa ad sorga fyrer hans Velferd, sem hvers annars, eñ þa ad gæta sialfañ mig ad eg ei verde Hluttakare i hans Synd, og mest elska hans Saalu og ala onn fyrer henne.

154. Er þad noog ad vier med Ordum og Atvikum audsiinum oß vingirnliga vid vorn Naunga?

Ney, Verk og Sañleike eiga ad fylgia þar med.

1 Joh. 3, 18. Laatum oß ei elska med Orde, ei heldur med Tungu alleina, heldur med Verke og Sañleika.

155. Hvors vegna eigum vier ad elska vorn Naunga?

Vegna Guds, sem med sinu Orde og Efterdæme kienner oß þad.

1 Joh. 4, 11. Þier Elskanliger, hefur Gud so elskad oß. Þa erum vier skylder til ad elska hver añañ.

156. Hvar utmaalast mier framvegas Kiærleike til Naungans?

J þeim sio siidustu Bodordum, sem tilhliida añare Tobluñe.

157. Hvort er þad fyrsta Bodord i añare Tobluñe?

Þad fiorda.

158. Hvorniñ hliodar þad fiorda Bodorded?

Heidra skaltu Fødur þiñ og Moodur, so þier velvegne og verder langliifur aa Jørdunne.

Þad er:

Vier eigium ad oottast og elska Gud: ad vier eige fyrerliitum vora Foreldra, nie þa sem yfer oß eru bodner; eige þa til reide reitum: heldur þa i Heidre hofum, þionum þeim,

þeim og hlydner ſinum, elſkum þa og Vyrding veitum.

159. Hvad er oß ſkipad i fiorda Bodordenu?

Ad hafa vora Foreldra i Heidre, þiona þeim, hliida þeim, og elſka þa.

160. Hvad er bañad i fiorda Bodordenu?

Ad fyrerlyta edur til Reide ad reita vora Foreldra.

161. Hvorier ſkiliaſt fyrer Fødur og Moodur?

Fyrſt näturliger Foreldrar, þar næſt aller þeir, ſem ai eiuhvern hätt eiga ad ſtiorna og räda yfer oß, ſo ſem Yfervalds-Perſonur, Fiarhalds-Meñ, Huß-Bændur, Preſtar, Skola-Meiſtarar og Þeßkonar, hvorier aller eru Foreldrar, hvor i ſinne Röd.

162. Hvad margar eru Høfud Stietternar?

Þriar ſierdeilis:

1) Veraldlig Vald-Stiett, i hvorre Kongur:iñ, Furſtarner, og adrar Yfervalds-Perſonur eru Foreldrar, eñ Underſaattarner þeirra Born.

2) Kiennedoms-Stiettiñ, i hverre Preſtar og Skola-Meiſtarar eru Foreldrar, eñ þeirra Læ:e-Sveinar og Tilheirendur Born.

3) Hußſtiornar-Stietteñ, i hverrer Fader og Moder, Huß-Bændur og Huß-Mædur, Fiarhalds-Meñ, Velgiorarar og ſo fromt.

fromt gamalt Folk, eiga ad syrdast sem Foreldrar af Bornum, Barna-Bornum, Stiup-Bornum, Þionustu-Folke, Umbods-Bornum og odrum Ynglingum.

163. Hvors vegna a eitt Barn eiru Þienare, edur Lærersveirn ad heidra Þvilijka Foreldra?

Þvi þad er Guds Skipan, og þienar til þeirra eigiñ Velferdar.

164. Hvor hefur tilsett Yfervalded yfer oß?

Sialfur Gud.

Rom. 13, 1. Þar er ei Valdstiorn utan af Gude.

165. Erum vier Þa Guds vegna skylder til ad hlyda, iafnvel einu ogudligu Yfervalde?

Jai, þad var heided Yfervald sem St. Petur vilde, ad þeir Christnu i ondverdu skyldu vera hlydner, þa hañ sagde: Vered undergiefner allre mañlegre Skikkan fyrer Drottens Saker. 1 Pet. 2, 13.

166. Hvernin eiga Undersaatarner ad hegda sier vid sitt Yfervald?

1) Eiga þeir viliugliga ad hlyda Þvi.

Rom. 13, 5. So er Þad naudsynlegt, ad vera undergiefen, ekke einasta Straffsins vegna, heldur fyrer Samvitskuñar Saker.

2) Heidra þad.

Rom. 13, 7. Verted Þeim Heidur, sem Heidur Þeirer.

3) Bidia fyrer Þvi.

1 Tim. 2, 1. Umf am alla Hlute amiñe eg fyrst, ad Þ'er giored aut miuklega Offer, Bæner, Fyrerbeidslur, Þackargiørder fyrer øllum Moñum, fyrer Kongum,

gum, og ollum Þeim, ſom eru ypparliger, ad vier meigum lyfa roliguſ og kiemoduliguſ Lijfnade i allre Gudrækne og Sidſemé.

4) Greidugliga betala þvi Skatt, Tolla og Tiunder.

Matth. 22, 21. So giefed Keiſaranum, Þad Keiſarans er, og Gude Þad, Guds er.

167. Er Þa Toll-Svik og Þeßhattar ſtoor Synd?

Ja vyſt.

Rom. 13, 6. 7. Þvi Þeß vegna giefed Þier Þeim Skatt, ad Þeir eru Guds Þionar, ſem ſtanda ſtodugt i Þri ſama. Giefed Þar fyrer ollum Þad Þier erud Þeim ſkylduger, Þeim Skattur beirer, Skatt, Þeim Tollur, Toll, Þeim Otte, Otta, Þeim ſem Heidur, Heidur.

168. Má madur aldrig vera Yfervaldenu oblyden, edur forſoma Þeß Skipan?

Aldrig, nema þad befale þad ſem er opinber Synd moote Guds Bodordum, þvi þa aa madur fremur ad hlyda Gude eñ Moñum. Poſt. Giern. 5, 29.

169. Hvad er Yfervaldſins Skylda vid Underſaatana?

Ad elſka þa, leita þeirra timanlegrar og eylyfrar Velferdar, halda Frid og gooda Skikkan med ad ſtraffa þad Vonda, eñ endurgialda þad Gooda.

Rom. 13, 4. Hañ er Guds Þienare Þier til Gooda, eñ giorer Þu Þad ſem illt er, Þa vert hrædduꝛ, Þvi hañ ber ei Sverded forgiefens.

170. Af hvorium eru Kiennendur og Predikarar tilsetter?

Af Gude.

2 Cor. 5, 20. Vier erum Sendebodar i Christi Stad, eins og sialfur Gud aminte ydur fyrer oss.

171. Eiga Tilheyrendurner ad hlyda aminningum þeirra Saalusorgara?

Jaa visſuliga.

Ebr. 13, 17. Hliided ydar Leidtogurum, og vered þeim undergiefner, þvi þeir vaka yfer ydar Saalum, so sem þeir er skulu standa Reikning, ad þeir giore þad med Glede, og eige med Andvarpan, þvi þad er ydur ekke gagnligt.

172. Eiga men og so ad hliida og breita efter einum ogudligum Kiene Fodur?

Ekke hans Verkum, heldur hans Kienning, so framt han heldur vid Ritningarinnar Sanleika, hvort ed maa ransaka efter Dæme Berroensinum. Post. Giern. 17, 11. 1 Joh. 4, 1.

Þar ad auk heiter Matth. 23, 2. 3. Aa Mosis Stole sitia Skriftlærder og Phariſearar. Þar fyrer alt sem þeir segia ydur ad halda, þad halded og giored, en breited ei efter þeirra Verkum, þvi þeir ad sonn segia þad, og giore þad ekke.

173. Um hvad eru Tilheirendur þeirra Kiennefedrum skylduger?

Ad elſka, heidra, hliida, launa og bidia þeim Goods.

Gal. 6, 6. Saa ed verdur uppfrædður i Ordenu, skal meddeila honum allrahanda Giædum, sem han uppfræder.

174. Hvad

174. Hvad er eins Kieñefeödurs Skylda vid hans Tilheirendur?

Af einu elskuligu, hoogværu og umhyggiu-fullu Hiarta ad kieña amiña og straffa. Somuleidis idugliga ad bidia fyrer þeim, og gaanga a undañ þeim med goodre Fyrer-myndan. 1 Pet. 1, 2. 3. 1 Cor. 4, 16. 1 Cor. 11, 1.

2 Tim. 4, 2. Predika þu Orded, vertu ad i Tima og Otima, yferbevijsa, aaviita og aaniñ med allre Þolinmæde og Uppfrædingu.

175. Er eirn Prestur ekke settur til ad bugga alla Meñ?

Ney, ekke utañ Sañydrande. Fyrer þaꝛ ugglausu er Hugguniñ Saular Oliifian.

Ezech. 3, 18. Nær eg sege til hins Ogudliga: þu skalt vissuliga deya, og þu amiñer hañ ekke, þa skal saa Ogudlige deya i sinum Misgiorning, eñ eg vil krefia hans Blods af þiñe Hende.

176. Hvorier eru þeir følsku Spaameñ a medal Kienne fedranna, sem madur skal vakta sig fyrer?

Næst morgum ødrum, er ei verda talder, eru fierdeilis, efter Frelsarans Ordum, þeir, sem giora þañ Veg, er leider til Himens, breidañ, og draga so Saalernar a taular med Von Saalahialparennar, þar til þær vakna i Helviite.

Matth. 7, 14. 15. Pad Port er miott, og saa Vegur er þraungur, sem til Lyfsins liggur, og þeir eru faaer, sem rata hañ. Eñ vakted ydur fyrer fals Spaa-

mönum, sem koma til ydar i Sauda Klædum, en innvortis eru Þeir glepsande Ulfar; af Þeir Avoxtum skulu Þier Þekkia Þa.

Es.3,12. Mitt Folk, Þeir sem priisa Þig lukkulegt, Þeir villa Þig.

177. Hvad er Þeirra naturligu Foreldra og Fiarhalds-Manna skylda vid Þeirra Ungdom?

Ad bidia fyrer Þeim, og bera Ahyggiu fyrer Þeirra timanlegre, andligre og eylyfre Velferd.

Eph. 6,4. Uppelde ydar Born i Aga og Drottins Aminning.

178. Hvad eiga Foreldrarner ad giøra vid ohlijdin Børn?

Þeir skulu med Skynsemd og Tempran Elskunnar tipta Þau, ekke til Uppertingar, heldur til Betrunar.

Ordsk.13,24. Hvor sem sparar sin Vond, hatar sinn Son; enn saa sem elskar hann, tipter hann med.

179. Straffar Þa Gud Foreldrana, sem laata Bornin vera sialfrad?

Jau, Þad sioum vier af Eftirdæme Eli. 1 Sam. 2,31.

180. Kann madur Þa og so ad straffa Børninn um of?

Jau.

Eph. 6,4. Þier Foreldrar, upperted ekke ydar Born.

181. Hvad er Barnanna Skylda vid Foreldrana?

Med Hiarta, Orde, Atlotum og Verkum ad heidra og elska Þa, Þiona og hlyda Þeim,

og

og þad eñ þa þott ad Børninn ſieu vordin myndug, ſkynſom, riik og aſialig; ſomleidis ad bidia fyrer þeim.

Syr. 3, 7. Heidra þiñ Fødur med Verkum og Ordum, ad Bleſſaniñ meige koma yfer þig fraa honum.

V. 11. Kæra Bara! ſtoda þiñ Fødur i Elleñe, og þu ſkalt ekke angra hañ medañ hañ lyfer.

V. 15. Hvor ſem yfergiefur ſiñ Fødur, hañ er ſem eirn Guds Hædare, og hvor ſem giører reida Modur ſina, er bolvadur af Drottne.

182. Maa eitt Barn gifta ſig an Vilia og Sampikkes ſinna Foreldra?

Ney, þvi þad er ad giøra þeim ſtort Angur.

183. Eiga menn ad hlydnaſt Foreldrunum i illu og ſyndſamligu?

Ney.

Matth. 10, 37. Hver ſem elſkar Fødur edur Moodur meir eñ mig, er min ekke verdugur.

184. Hvad er Huſbondans og Matmoodurinnar ſkylda vid þeirra Pionuſtu Folk?

1) Ad giefa þeim þeirra Fæde og Laun i riettañ Tima.

3 Moſ. 19, 13. Laat ei Daglauna Mañſins kaup biida hia þier Nottena ut til Morguns.

2) Stiira og ſtiorna þeim med vingiarnligre Þolinnmæde.

Eph. 6, 9. Og þier Drotinar, giøred þeim þad ſama, og laated Ognanena fara, vitande, og ad ydar eigiñ Herra er aa Himnum, og Mañgreinarmunur er ei hia honum.

3) Ad

3) Ad lata sier vera umhugad þeirra lykamlega Naudsyn, sierdeilis þa þeir eru veiker, so vel sem þa andlegu med Uppfræding, Aminning og Fyrerbon, eins og Hofuds-Madurinn fra Capernaum giorde. Matth. 8,6. 1 Mos. 18, 19.

185. Hvad er Þionustu-Folks Skylda vid þess Hußbændur og Mat-Mædur?

Þad ad elska, heidra og hlyda þeim, i ollum Hlutum ad leita þeirra Gagns-muna, og vera yded og trutt eins hvort þeir eru nær edur fiær, lyka kostgiæfelega, bidia fyrer þeim.

Eph. 6, 5.6.7.8. Þier Þienarar, hlyded ydar Herrum efter Holdenu med Otta og Hrædslu i ydar Hiartans Einfalldleik, so sem Christo, ekke med Ufer-skiine, sem þier vildud þoknast Monnum, helldur sem Christi Þionar, so þier giored Guds Villia af Hiarta, Þionande med Goodvilia, so sem Drottne, og ekke so sem Monnum. Vitande, ad hvad Gott sem hver eirn giorer, þad skal hann odlast af Drottne, hvort sem hann er Þræll edur Frelsinge.

186. Enn ef Hußbondinn er underliga lyndur og bagt ad forlykast vid?

Þa a Christelegur Þienare ad idka Þolinmædena.

1 Pet. 2, 18.19. Þier Þienarar, vered Herrunum undergiefner i allre Ottaseme, ekke alleina Goodum og Bliidum, helldur og so þeim Leidinlegu, Þui þad er Naad, ef nokkur umber Sorg fyrer Samvitskunnar Saker til Guds, nær hann liidur Oriett.

187. Ma Pionustu-Folk af hlidne lata bruka sig til syndsamlegra Verka?

Ney, einganvegen, þvi hauit er Herra-Boded, eñ hærra er Guds-Bod.

Post. G. 5, 29. Fremur ber ad hliida Gude eñ Moñum.

188. Hvorin lofar Gud hlidnum Bernum og Pionum, sem halda þad fiorda Bodordid?

Ad þeim vegne vel og lyfe leinge a Jordune.

189. Giefur Gud þa ollum froomum Monnum eitt langt og farsælt Lyf?

Jai, siae hañ had þiena til þeirra Saluhialpar, annars ei.

190. Þvi lætur hañ þa Ogudligu og so offt verda gamla?

Vegna þeß hañ vill unna þeim eñ meire Tima og Tækefæris til Afturhvarfs.

191. Straffar Gud þa Barnaña Oblydne, eins og hañ launar þeirra Hlydne vid Foreldrana?

Jai, þar uppa hofum vier stort Efterdæme a Absalon, Davids þverbrotnum Syne, sem hieck a Hærenu i Eikiñe, giegnumstungen med þremur Spiotum. 2 Sam. 18, 9. 15.

## Þad fimta Bod-Orded.

## Þu skalt ecke Mann-deida.

Þad er:

Vier eigum vottast og elska Gud, ad vier eige meidum Hold vors Nqunga, eda giorum

rum honum Mein i nokkru ; heldur eigum vier honum ad biarga og vid hialpa i øllum hans Lyfs Naudsyninm.

192. Hvad illt er bañad i þeßu Bodorde?

Allskyns Mord og Mañdrꜹp, sem ei skiedur efter Yfervaldsens Doom og Skipan, heldur af Hefndar-gyrne.

193. Hvad margslags er Morded?

Tveñslags, sem er þad stærra, med Verksins Framkvæmd, og þad smærra og lemplegra, med Hiartans Hatre, Ordum Muñsins og Reidugligu Yferbragde.

194. Hvornin deider madur siñ Náunga med Verkenu?

1) Annad hvert i einu med Hogge, Sting, Skote, Eitre og þvilijku.

1 Mos. 9, 6. Hvor sem uthellter Mañsins Bloode, hans Blood skal og verda af Mañe uthelt.

Ellegar þad gietur og skied

2) Med langseme og leynelega, med þvi ad koma Náunganum i stort Hiartans Angur, edur fyrra hañ siñe Næring.

Syr. 34, 21. Hvor sem burttekur Næringuna, hañ deider siñ Náunga, og hvor sem ræner eiñ Daglaunara sinum Launum, uthellter Bloode.

195. Nu ef madur svipter ekke Náungañ Lyfenu, gietur hañ þa deidt hañ med haturs fullu Hiarta og Illyrdum?

O jú, þad kienner JEsus Matth. 5, 21. 22.

 þar

þar hañ utleggur þa andlegu Meining þeßa Bodords: Þier hafed heirt, ad þad er sagt þeim Gömlu, þu skalt ekke Mañ vega, eñ hvor hañ vegur Mañ, skal sekiast fyrer Dome, eñ eg sege ydur, ad hvor sem reidest Brodur sinum an Orsakar, skal verda Doms sekur, og hvor sem seger til Brodur sins: Raka, skal verda sekur fyrer Radenu, eñ hvor sem seger: þu Afglape, skal verda sekur Helvitis Elds.

196. Er þa ein hatursfull og hefndargiørn Manneskia eirn Mordinge?

Jai vissuliga, þvi Gud aliitur Hiartad fremur Hendiñe.

1 Joh. 3, 15. Hvor sem hatar Broodur siñ, er eirn Mañdraapare, og þier vited, ad eingiñ Mañdraapare hefur eylyft Lyf i sier bliifada.

197. Er eirn Ordhaakur, sem brukar hrædeleg, saar og hædelig Ord, og so eirn Mordinge?

Jai, JEsus kallar þad þa Synd, sem forþienar Helvitis Eld., og David seger Ps. 64, 4. Þeir hvetia sinar Tungur, sem Sverd, og speña Boga, og skiota sinum Piilum, sem er eitt saart Ord.

198 Er þa Grimd, Argviitugheit og Illska, so hrædeleg Synd?

O jai, hvor sem hun hefur yferhond, þar er ei Raadareñar Ande og JEsu bliida Hoogværd.

Eph. 4, 31. 32. Allt Beisklynde, Braad-sinne, Reide, Hroop og Lastmælge vere langt fra ydur, eñ vered froomir hver vid aňañ, og goodsinnader, so þier fyrergiefed hver ødrum, eins og Gud hefur ydur fyrergiefed i Christo.

199. Hvad skal þa eirn Reidegiarn taka til Raads ad hafa i Taume og dempa med siit Heiftar-gied?

Hañ skal utbriinia sig med JEsu Hoogværdar Gieds-munum, Saungiæsa hvern siñ Þanka, bidia ad hañ falle ekke i Freistne, og sialfur taka sier vara fyrer Hentugleika til Freistniñar.

200. Er þa alldeilis eingiñ Reide leifeleg?

Eingiñ til Personañа, helldur til Syndaña og Vondskuñar, hvor rietterdug Reide ad kallast Vandlæting, og kiemur af Elsku til Guds og Naungans.

Adgiæt Jak.1,19.20 Ps.119,139. Eph.4,26.

201. Fær madur og so deidt siñ Naunga ad Saalune til?

Jaa, med Villu og Hneixlan.

Matth. 18, 6. Hvor sem hneixlar eirn af þessum Smæiingum, sem aa mig trua, þarfara være honum, ad Mylnu Steirn være heingdur um hans Haals, og hañ være i Siafar Diup soktur.

202. Maa madur deida sialfañ sig?

Ney, þad er, ad drepa Liikama og Saal i einnlage, og afturlæsa Dyrum Naadareñar, sem Judas sau Fortæmingariñar Sonur giorde.

203. Hvad er þad Gooda, sem oss verdur besalad i simta Bodordenu?

1) Ad biarga og vidhialpa vorum Naunga i ollum hans Lyfs-Naudsynium.

1 Joh 3, 17. Hañ sem hefur Veraldar Andæfe, og og sier siñ Broodur Naudlyda, og lykur sitt Hiarta til fyrer hønum, hvornin er Guds Kiærleike i hønum.

2) Ad umgangast vinsamliga med Hoogvære vid vorn Nauunga.

Matth. 5, 5. Sæler eru Hoogværer, þvi þeir skulu Jardrykeñ erfa.

3) Ad sorga fyrer Sæl vors Nauunga, þa vier siauñ hana i Haiskasemd þeß eylyfa Dauda, so vidt oß er mogulegt, sem andlegum Kienne-møñum, ad hialpa henne afram til Saluhialparenar med vingiarnlegum Vidvorunum og Aminingum.

Jac. 5, 19. 20. Brædur! ef nockur aa medal ydar fer viller Vegar fra Sannleikanum, og nockur leidrietter hañ, sa vite, ad hvor sem hefur leidriett eirn Syndara fra villu sins Vegar, hañ mun frelsa eina Sal fra Daudanum, og hilia Margfiølda Syndaña.

204. Hvor var sa fyrste Mordinge?

Cain ersloo siñ Broodur Abel i hel af Øfund.

205. Er og Myslunarleise vid Maalausar Skepnur Synd?

Jaa.

Ordst. 12, 10. Sa riettlaate berumhigglu fyrer Lyfe siñar Vesiu, eñ Miskun hins Ogudliga, er sem þeß Griña.

## Þad siøtta Bodord.

## Þu skalt ekke Hoordom drygia.

Þad er:

Vier eigum ad oo'tast og elska Gud: ad vier lyfum hreinferdugliga bæde i Ordum og Verkum, so hvor og eirn elske og i Heidre hafe sina Egte-Personu.

206. Hvad er Hiuskapur?

Su eldsta Stiett og Rod, af sialfum Gude insett i Paradis, sem vilde ad Madur og Qvinna skyldu eitt Hold vera.

207. Er þesse Stiett synd samlig og saurug?

Ney, þegar i henne er lyfad efter Guds Orde og Vilia.

Ebr. 13, 4. Hiuskapurinn er heidarligur medal allra, og su osaurgada Sæng.

[208. Til hvers hefur Gud insett hionabanded?

1) Til Mannkiinsins Friofgunar.

1 Mos. 1, 28. Vered frioffsom og margfaldest, og uppfylled Jordena.

2) Til illra Gyrnda Ostrunar.

1 Cor. 7, 2. Fyrer ymislegs Saurlyfnadar Saker, hafe hver Madur sina eiginn Kvinnu, og hver Kvinna finn eiginn Mann.

3) Til innbyrdis adstodar, huggunar og Rauda-giordar.

1 Mos. 2, 8. Gud Drottinn sagde, Þad er ecke gott, ad Madurinn sie einsamall, eg vil giora honum hialp, sem fyrer hann.

209. Hvorninn a eirn egta Madur ad hegda sier ved sina egta Kvinnu?

Hann a trulega ad elska hana, vyrda, styra,

ra, stiorna og ala ønn fyrer henne, lyka med Þolinmæde ad umbera hennar Breisklleika, kydia fyrer henne, og leita hennar Saalar Velferdar.

Col 3,19. Þier Menn, elsked ydar Egta Kvinur, og vered ecke styggir vid Þær. 1 Cor.7,16.

210. Hvornin a ein egta Kvinna ad hegda sier vid sin Mann?

Hun a ad vera honum undergiefen i elsku, Tru og Umhiggiu fyrer þeirra Huse, bidia fyrer honum, og leita hans Saalar Velferdar.

1 Mos. 3,16. Þin Efterlangan skal vera til Þins Mans, enn hann skal Drottna yfer Þier.

1 Cor.7,34. Hun sem gifter, ber Umhiggiu fyrer Þvi, sem Heimenum tilheiider, hvornenn hun fae Mannenum Þoknast. 1 Cor.7,16. 1 Pet.3,1.

211. Hvad er fromra Eckna og Fodurlausra Huggan?

Þess Himneska Fodursins fierdeilis Nadarrijk Umhyggia og Forsvar.

Ps.68,6. Drottin er Fader Fodurlausra, og Domare Ecknanna. Sia fremur 2 Mos. 22, 22.24. 5 Mos.27,19. Sir.35, 14.15 ꝛc.

212. Hvad er fromrar Eckiu skylda?

Ad lyfa i Sidsemd og Andagt.

1 Tim. 5, 5. 6. Su sem er riett Eckia, og er utaf fyrer sig, hun hefur sett sina Von til Guds, og helldur vid i audmiukum Bænum Nott og Dag, enn su sem lyfer i Syndum, er lyfande dauð.

213. Hvad

213. Hvad er þad Vonda, sem oß verder bannad i siøtta Bodordenn?

Hooruri, Saur-liifnadur, Bloodskom, bestiuligur Loste, Lykamans Saurgan, Egteskaparins Forakt, Gyrnd til annarligs friidleika, og allrahanda Saurugleike i Hugsunnum, Ordum, Vidmoote og Verkum, bæde i Egteskapnum og fyrer utan hann.

314. Hvad er hugsanañ Hordoomur?

Saurugar og lausslautar Gyrnder, sem ei eru huldar fyrer Gude, sem þekker Hiartad.

Matth. 5, 28. Eg seige ydur, ad hvor sem liitur eina Kvinnu, ad gyrnast hennar, hefur allreidu driigt Hoor med henne i sinu Hiarta.

215. Hvad er ad driiga Hooruri med Ordum?

Allt svivirdelegt og bliigdunarlaust Klamtal, lauslætis Skrif og Viisur, Gicks-hattur og Narrari, sem horfer til Lauslætes edur i þad minsta, er a moote Christlegre Vareigd, edur Alvorugiefne.

Eph. 4, 29. Eingin vond Ræda framkome af ydar Munne.

Eph. 5, 3. 4. 5. Hoordomur og allur Saurugleike edur Agyrnd nefnest ei a medal ydar, so sem þad hæfer Heilögum, og Klamm og gicksleg Tal, og Losaædes Skiemtan, hvort ed ekke sooma, helldur Þakklargiord; þvi þad mege þier vita, ad einginn Fridluliifes Madur, edur Saurugur, edur Agiarn, hvor ad er eirn Afguda-Dyrkare, hefur Arfleifu Riike Christi og Guds.

216. Hvad er hooragtugt Vidmoot?

Allrahanda utvortis Merke, sem lokka blygdunarlaust Hiarta, hvort sem heldur er Augna edur Andlits Teikn, Likamans oscemeleg Opinnberan, ohæfeleg Klædadrægt, lauslætis F...ßar, Dansar, Vikevake og þeßkonar.

Sir. 26, 10. 11. 12. Haltu sterka Vakt yfer eirne obliugre Dottur, ad hun ekke framskvæme sin Vilia, þa hun finnur Tækefære þar til, gief vel giætur ad oforskömmdu Auga; og forundra þig ei þo hun forsiwe sig i moote þier. Sia Syr. 9, 7. 11.

217. Eru þa lauslætis Ord og vidmoot so stoor Synd?

Ja, ei alleina eru þau i sialfu sier Christnum oscemeleg heldur og so leida vondar Verkaner at efter sier, og þiena til eñ þa fremur ad uppkveikia þa vondu Gyrnd, þar til su sama utbriitst i Verknadenum.

Jac. 1, 14. 15. Sierhvor freistast, þa hañ lokkast af sinum eiginn Gyrndum, þar efter þegar Gyrnden hefur gietid, fæder hun Synd, enn þegar Synden er fullkominn, fæder hun Daudann.

218. Hvad giörer þeßa Synd vidbiodalega og straffsverda fremur ödrum?

Þad hun saurgar og fordiarfar undereins bæde Saal og Lijkama, sem skyldu vera Guds Mustere, enn verda ad Hydbylum hins ohreina Anda.

1 Cor. 6, 15-18. Vited þier ecke, ad ydar Lijkamer

mer eru Christi Limer? Skal eg þa taka Christi Limi og giora þa ad Skiækunnar Limum? Það sie langt fra. Eda viteð þier ekke, ad hvor sem heldur vid Skiækiuna er eirn Lijkame með henne? Þvi þau tvo (seger hann) skulu verda ad einu Holde: Enn hvor sem heldur sier vid Drottin, verdur eirn Ande med hønum. Fordest Saurlijfnad. Øll Synd, sem Madurinn drijger, er fyrer utan Lijkamann, enn hvor sem drijger Frillulijfe, syndgar moote sinum eiginn Lijkama.

219. Hvad er skipad i siøtta Bodordenu?

Ad geima bæde Lijkama og Saal i sonnu Hreinlijfe, hvort Madur er giptur eda ogiptur, so Madur meige altijd vera hæfur til ad umgangast med sinum Gude.

Matth. 5, 8. Sæler eru Hreinhiartader; þvi þeir munu Gud siaa.

220. Hvada Medal skal madur brúka til ad geima sig fyrer Lauslæte?

Þegar andinn er reidubuinn, enn Holded þo veikt, aa Madur ad vaka og bidia, og þar næst vakta sig fyrer øllu þvi, sem upptendrar þær vondu Girnder.

221. Hvad upptendrar hellst þær vondu Girnder?

Einna mest Ohoof og Drikkinskapur.

222. Er þa Ohoof og Drikkinskapur so hæskalig stoor Synd?

Jaa visfuliga, þvi þær utelykia oss fra Guds Rijke, eins sem Hoor, Mord, edur Þiofnadur.

Gal.5,19 20.21. Holdsins Verk eru opinnber, sem eru Hoor, Fridlulljfe, Ohreinleike, Odaude, Afgudar Dijrkan, Fiandskapur, Kijf, Nijd, Reide, Þrætar, Tvidrægne, Hoopadraittur, Hatur, Mord, Drikkinskapur, Ohoof og þ:ßum lijkt, um hver eg sege ydur fyrer fram, sem eg og fir sagde, ad Þeir sem giora slijka Hlute, skulu ekke erfa Guds Rijke.

Luc. 21,34. Vakted ydur sialfa, ad ydar Hiortu aldrig nokkurn Tima offijngest af Ohoofe og Drikkiuskap.

223. Eñ mun so hæsska sámligt ad drekka sig endur og eins drukkiñ, Þa madur giörer ei dagligañ Vana af Þvi?

Jaa, Þegar Þad skedur af Asetninge, Þa er Þad alltijd fordæmanleg Synd, sem alldrig kañ adstandast med Guds Naadur og Saaluhialpar Von.

224. Eñ ef madur er so Hofudsterkur, ad hañ Þoler mijked, maa hañ Þa ekke drekka mijked?

Ney, hverke eta nie drekka yfer Naudsturft. Sia 1.Pet.4,3. hvar ed gioreft Mißmunur aa Ofneitslu og Drikkiuskab, og Þo vyrdest Þad fyrra sem hid sijdara fyrer eina heidinglega Synd.

225. Hvad er fleira, sem kañ ad freista til Lausatis?

Jdiuleise, Vondur Selskapur, Amors Vijsur, Bækur og Bilæte, Lauslætis Ordar, og allt Þad sem af sier fæder Gyrnd Holdsins, Fijsn Augnanna og ofurdaudugt Lyferne.

226. Hvorier gooder Þankar kunna ad vera hentasiertil ad dempa Holdsins Freistingar?

Ad madur minnest Naulægdar og Pijnar þeß allra heilagasta Guds, keß kroßfesta JEsu Christi i hans likamlegu Kvøl og Pinu, þeirra fordæmdu Kvala i Helvijte, og þeirrar saurugu Syndar stuttrar Skiemtunar, efter þvi alkunna Verse:

Aldrei drijg um æfe Hoor,
Þad Verri kreinker geinge,
Og Skeimtan Losta i Skynde foor,
Enn Skøm og Kvøl finst leinge.

227. Hvor hefur so vardveitt sitt Hreinlijfe at moote Til-lokkan?

Joseph, þa hann sagde til Potiphars Kvinnu: Hvornin skylda eg drygia þeßa stooru Illsku, og syndga ai moote Gude? 1. Mos. 39, 8.

## Þad siøunda Bodord.

## Þu skalt ekke stela.

Þad er:

Vier eigum ad oottast og elska Gud: ad vier ei griipum Gots eda Penninga fra vorum Naunga, eda med følskum Kaupeijrer og Underhyggiu under oß droguni, heldur eigum vier þar til ad hialpa og stijrkia ad hans Gots og Upphelde avaxtest og vardveitest.

228. Hvad Illtverdur bannad i siounda Bodordenu?

Ad stela edur fremia Þiofnad.

229. Hvad er þad ad stela?

Þad er ad giora Naunganum vid-skila vid hans Gots, hvort heldur er þad meira, edur þid minna, ai moot hans Vilia.

230. Skiedur þad mier enn i eirn Maata?

Jaa, med Ofrijke edur Svikum.

231. Hvör stelur med Ofrijke?

Eirn Stoor-Þiofur, sem aun minstu Heimildar burttekur þad sem annars er, eins og þad være hans eiged.

Eph. 4, 28. Hvor sem hefur stoled, stele sa ei meir, enn ervide heldur.

232. Hvor stelur med Svikum?

Þad giora aller þeir, sem annad hvort taka, edur efter halda Naungans Eigu med slottugum og leimelegum Maata, er skie kann margvijslega, þvi sierhvor Þiofur brukar sin Brogd og Hnikke.

233. Seig mier nokkra af þeim almenelegustu Þiofa-Hnikkum?

Eirn heimuglegur Þiofur fyrer Heimenumm, þo hann sie opinnber fyrer Auglite Guds, er

1) Sa Kaupmadur, sem i Kaupum og Solum asæleft sinn Naunga sölerdis, ad hann ei fær fult andvyrde fyrer sitt, annad hvort þad ad Varan, Viktenn, Mælerenn, eda Penningarner, er mina Gildis enn

Naun-

Nauunginn afveit, hvort ei er ad elſka Naun-
gann ſem ſialfann ſig.

1 Theſſ. 4, 6. Einginn ſkal underþrikkia edur aſæ-
laſt ſinn Brodur i nockre Hondlan, þvi Drottinn er
Hegnare alls þeſſa.

3 Moſ. 19, 35. Þier ſkulud ekke giora Oriett i Do-
menum, i Mælernum, i Vigtenne, i Maalanum, riett
Vigt, riett Pundlood ſkulu vera hia ydur.

2) Sa Þienare, Handverksmadur, edur
Daglaunare, er Þiofur, ſem fyrer fullann
Betaling giører ei Verkenu fullnuſtu, edur
ſtingur nockru under Stool.

2 Theſſ. 3, 10. Ef einhver vill ei erfvida, ete ſa ei
heldur.

Lyka ſa Husbænde, ſem ei giefur tilbære-
legt Fæde og Laun, fyrer holla Þionuſtu.

Jac. 5, 14. Aliſted Erfvidaranna Laun, ſem ſlou
ydar Land, ſem Þier afdrogud, hroopa, Folkſins Rauſt
er komin til Drottins Zebaoths Eyrna.

3) Er ſa Okur-Karl Þiofur, ſem med o-
billegre Rentu utſijgur ſinn naudſtadda
Naunga.

3 Moſ. 25, 36. Þu ſkalt ekke okra, edur taka Til-
bæter af Brooder þinum, heldur ſkaltu oottaſt fyrer
þinum Gude, ſo þinn Brooder mege lijfa med þier.

4) Er ſa Skuldunautur Þiofur, ſem gie-
tur borgad ſina Skuld, enn vill ekke, og med
Aſetninge, Svika og Afdrættar, heldur in-
ne annra Gotſe.

Pſal. 37, 21. Saa Ogudlege tekur til laans, og
vill ei borga.

Sa

Sem Domare, edur annad Yfervald, er Þiofur, sem vanbrukar sinn Myndugleika til ad kuga Nœungan, edur tekur Mutur til þeß ad halla Riettenum.

Orðsk. 17, 23. Saa Oguðlege tekur mutu ur Barmenum til þeß ad halla Vegum Riettarens.

6) Er sa Undersaate Þiofur er svikist um Kongsins Toll, Tiunder og þvi lijkt.

Rom. 13, 7. So giallded hveriumm Manne, hvad þier erud skylduger, þeim Skatt, sem Skattur heyrer, þeim Toll, sem Tollur.

7) Ad sidustu eru og þeir aller Þiofar, sem leitast vid ad hialpa sier med annara Skada, Lukkunnar vogun hvort sem þeir vinna edur tapa, med onijtsamlegum Konstum, og naudsijnialausu Betlerie.

2 Thess. 3, 11. 12. Vier heyrumm, ad nokkrer hegde sier ai medal ydar oskikkanlega, sem erviða ekke, heldur hafa naudsynialaust Kaupmang, enn þa likum biodum vier og aminnum fyrer vorn Drottinn JEsum Christum, ad þeir ervide med Hoogvœre, og ete sitt eiged Braud.

234. Eru aller þeßer Þiofar i fordœmanligu ma-sig komulage?

Ja, ad visu, þvi þo þeir verde ei aller heingder, lenda þeir þo i Helvijte, utann þeir giore alvarliga Yferboot.

1 Cor 6, 10. Fared ekke viller vega, hverke Þiofar nie Agiarner, ey heldur Drikkiu-rutarar eda Ordhakar, ei heldur Rœningiar, skulu erfa Guds Rijke.

235. Hvad ma eirn Þiofur til ad giøra, sa ed vill giøra Jferboot og leitar Naadar fra Gude?

Þa hann hætter ad stela, þa skilie hann sig og vid þad sem hann hefur stoled, so hann laute hvern fa sitt, ef hann gietur þad.

2 Mos. 22, 3. Þiofurinn skal alldeilis betala.

Luc. 19, 18. Hafe eg sviked nockud af ødrum, þa gief eg ferfallt aftur.

Tob. 2, 18. Gief þad eigendum aftur, þvi vier meigum ei eta þad sem stoled er.

[236. Eñ ef hverke finst eigande nie hans erfingiar?

Þa so skiedur, enn annars ei, mau þad giefast Fatækum.

Luc. 16, 9. Giøred ydur Vine af þeim rangløtis Mamon, ad nær ydur þrittur, þeir medtake ydur i eylyfar Tialdbuder.

237. Ma Presturiñ ei afleisa mig þeirre Synd, þo eg byhalde hia mier þvi rangfeingna?

Ney, þvi Aflausnin fyrer Gude, nær ei utan til þeirra sem giora sanna Jferboot, af hvorra tolu einginn Þiofur er medann hann beheldur Fookanum.

238. Er smaastuldur og Synd?

Jaa, þad er stoor Synd moote Gude, ad yfertroda hans Bod fyrer Hiegoma Saker, þo er þvi stærre Syndenn at moote Naunganum, sem honum er meira fraastoled.

239. Er þad Synd ad stela fraa þeim Ryku?

Jaa, þetta Bodord undannskilur aungvann,

barn, og rijkedæme Næungans giorer ei mitt Naunglæte ad Riettlæte.

240. Er Pad Synd ad hijlla med Piofnum?

Jai, Pad er ad giøra sig hluttakara i aña-legum Syndum.

Ordsk. 29, 24. Saa sem slifftcr vid Piofiñ hatar syna Saal.

241. Gietur madur stoled fra sialfum sier?

Jai, Pvi bad skiedur

1) Med Eidslu og Idiuleise.

Ordsk. 23, 21. Vijnsvelgiariñ og Ohossmaduriñ skulu vesæler verda, og Svefn skal orka Peß, ad eirn er i rifnum Gormum.

2) Svijdings-hætte vid sinn Likama.

Syr. 14, 5. 6. Saa sem vondur er sialfum sier, hvorium Munde hañ verda goodur? Hann skal ei glediast af sinum Penningum. Par er einginn verre enn hann, sem er kvikinde vid sialfann sig, og Pad er umbun hans Vondsku.

242. Ma Pa hvor eirn giøra asse sinu Pad hann vill?

Ney, Pvi vier erum Raads-menn yfer Guds Gaasum, og eigum eitt sinn ad standa Reikning af Peim. Luc. 16, 12.

243. Hvad gotter skipad i siøunda Bodordenu?

Ad vier styrkium Gagn vors Naunga.

244. Hvornin styrkium vier Naungans Gagn og Uppheldе?

Pa vier launum honum nokkud af voru Gotse, edur giefum Olmusu, hafe hann hennar Porf.

1 Joh. 3, 17. Ef nockur hefur þeßrar Veralldar Audlæfe, og sier sinn Brodur þarfa vid, og lijkur aftur sitt Hiarta fyrer hönum, hvornin varer Guds Kiærleike i hönum?

Ebr. 13, 16. Gleimed ekke ad giøra gott og meddeila, þvi soddañ Offur þoknast Gude.

245. Hvør giettur og a ad hialpa þeim naudlijdande Naunga?

Sierdeilis þeir rijku, og þar ad auk sierhver sem hefur nockud til Afgangs dagligre Naud-þurft.

1 Tim. 6, 17. 18. 19. Bod a þeim Rijku þ'ßrar Veralldar, ad þeir giøre gott, og verde rijker i goodum Verkum, giarnsamlega giefe, med-deile, safne sier sialfum fyrerliggiande Audæfum, og goodu Underlage til þeirra efterkomande Giæda, ad þeir giete høndlad þad eylyfalijf.

246. Hvornin a madur ad giefa Ølmußu?

Efter Efnum af goodu Hiartalage.

Tob. 4, 9. So sem þu hefur Nægter til, so gief þu Ølmißu þar af, hafer þu lited, so fyrerverd þig þo ekke, ad giefa Ølmußu af þvi litla.

247. Straffar Gud Miskunarleise?

Jaa.

Jak. 2, 13. þar skal Miskunarlaus Domur ganga yfer þann, sem ekke giører Myskunseme.

Psal. 41, 1. Sæll er saa, sem høndlar skijnsamliga, Drottinn skal frelsa hann a þeim vonda Deige.

## Þad attunde Bodord.

## Þu skalt ekke bera falskann Vitnisnisburd a moote þynum Naunga.

Þad

401. Er þa Christur tvær Personur?

Ney.

1 Tim. 2, 5. Eiñ er Gud og Medalgaangari milli Guds og Manna, sem er Maduriñ JEsus Christur.

Eñ i Christi einu Persoonu eru tvær Natturur, ꝏ kvæmliga sameinadar, sem er su Guddomliga og Manndomliga Nattura.

402. Hafa þessar tvær Natturur ætijd vered sam-einadar og fylgst ad i Christo?

Ney, þaa Guddomligu hefur hañ af Fødurnum fra Eylijfd.

Ps. 2, 7. Du ert miñ Son, i dag gat eg þig.

Eñ þaa Manndomlegu Nœtturuna hefur hañ uppaa sig teked af siñne Moodur Maria.

Gal. 4, 4. Þa Upp-fylling Tijmans kom, sendi Gud Son siñ, fæddan af Kvinnunne.

403. Hvar med audsyner þu, ad Christur sie sannur veruligur Gud?

Auk hans eylijfu Fædingar af Fødurnum, Guddomligra Eiginlegleika og Verka, vitnar Ritningen uñ þad med-lioosum Ordum, sierdeiles:

1 Joh. 5, 20. JEsus Christur er sannar Gud og eylijft Lijf. Sia meir Tit. 2, 13.

404. Getur þu eñ fremur bevijsad, ad Christur sie Gud og Madur i eirne Personu?

Jaa.

Joh. 1, 14. Ordit var Hold, og bygdi med oss.

Kom.

Rom. 9, 5. Christur er af Fedrunum efter Holldenu, sem er Gud yfer øllum Hlutum, blessadur ad Eylijfu.

405. Hvers vegna vard Guds Sonur ad verda sannur Madur?

So ad hañ kynne vegna vor Mannanna, i vorre daudligre Nattúru, ad smakka Daudans Beiskiu.

406. Hvers vegna vard hañ æsamt þvi ad verda sannur Gud?

So ad hans Daude og Foornfæringar Blood hefde eylijfan Fridþægingar Krapt.

407. Er JEsus af Nazareth sa sanne fyrerheitne Meßias og Heimsins Endurlausnare?

Jai, þvi øll þau Merke og Kenne-teikn, sem Ritningen tilleider um hañ sanna Meßiam, finnast i þia JEsu af Nazareth. Hañ er fæddur af Juda Ættkvisl, 1 Mos. 49. 8.10. og af Davids Ætt, 2 Sam. 7, 12. i Bethlehem, Borgenne Davids, Mich. 5. 2. af Meyu, Es. 7, 14. Sjai þu fremur Hagg. 2, 7. 9. Dan. 9, 24. Jai, allt þad annad, sem er spaid um Nidurlæging og Upphefd þeß sanna Meßiæ, hlyder olldunges og einasta uppai vorn JEsum af Nazareth. Ps. 22. Es. 53.

408. Af hverium er JEsus fæddur?

Af Mariu, sem var hrein og helg Jungfru,

fru, sem ad sönnu var trulofud Joseph, JEsu Foostur-Fødur, eñ kendte þo eingvañ Mañ.

409. Er hañ ei getiñ og fæddur af syndugu Sæde?

Ney, þvi iafnvel þoott Maria hefdeUpprunа Syndena i Natturunne, so vard hun þo ei ad Erfd a JEsu; heldur af heilogum Anda i Gietnadenum hurthreinsud.

Luc. 1, 35. Heilagur Andi mun koma yfer þig, og Kraptur hins hæđsta yfersḱyggia þig, af því, ad þad hid Heilaga, sem af þier mun fædast, skal nefnast Sonur Guds.

410. Hvernin kañ madur ad færa sier i Nyt Umþeinking JEsu heilagrar Mañdoms-Tekningar?

Sa fagnadar-fæleSañleike fær huggad oß med Fullvissu um alvarliga Elsku Guds til vor aumra Manna; uñ Sannleika og Fullkomnan vorrar Frid-þægingar, og uñ þan mikla Gofugleika og ypparlegu Vegsemd, til hverrar vor mannleg Natttura er upphafin med Sameiningunne vid Gud i Persoonu Christi, so ad vier og þeß vegna eigum þvi heldur ad hreinsa os af Andans og Holdsins Saurugleik.

411. Hvada Þyding hafa þau tvø Nøfn Þins Frelsara?

1) Nafned JEsus þyder Frelsara.

Matth.

Matth.1, 21. Hans Nafn skalltu kalla JEsus, þvi hañ mun frelsa sitt Foolk af þeirra Syndum.

2) Nafned Christus er sama sem Messias, og þyder Smurdan.

412. Med hvoriu er Christur smurdur?

Med Heilogum Anda og Krapte. Post. Giorn. 10, 38. Og þad aan Mælingar, Joh. 3, 34. Su Guddomlega Nattúrañ meddeilde þeirre mañdoomlegu sina Guddoomlega Eiginlegleika i þvi Augna-blike, sem su personuliga Sam-eining skiede a meðal beggia Nattúranna.

413. Epter hverre Nætturunne var Christur smurder?

Epter þeirre manndoomligu; þvi su guddoomliga hafde alla Hlute fra Eylifð.

414. Neytte Christus alltijd sinna Guddoomliga Eiginlegleika?

Ney, i sinu Nidurlægingar-Stande utteinde hañ sig fra þeirra Brukan, ad undan tekñu þvi, þa er hañ vilde med Krapta-Verkum aviisa hver hañ var.

415. Hvers vegna skyllde vor Endurlausnare vera sa smurde Drotteñ, og hafa Guddoomlega Eiginleg-leika?

Til þeß, ad hañ kynne ad framkvæma sitt þrefallda Embætte, nefnilega þad kennemañ-

manñliga, spámanuliga og konungliga, til hverre Embætta meñ voru invijgder med Smurning i gamla Testamentinu. Þetta hans þrefallda Embætte nefnest annars, einu Nafne, hans Medalgaungu Embætti.

416. Hvert er inñefaled Christi Ypparsta-Prests Embætte?

Í þvi, ad hañ eitt siñ hefur sig sialfan a Krossenum Gude offrad fyrer vorar Synder, og aun Afslats bidur eñ nu fyrer os, og blessar.

Ebr. 7, 24. 25. 26. Eñ Þessi hefur oforgiengilgan Kennimañskap, fyrer Þvi hañ varer eylijflega. Fyrer Þvi kañ hañ og einnin Þa ætijd sáluhólpna ad giora, sem fyrer hans koma til Guds; Þvi hañ lifir ætid ad bidia fyrer Þeim: Þvi soddan ædsti Kennimadur sóomdi os, sem ad være heilagur, saklaus, oflekkadur, Syndugum fraskilin, og ordin Himnunum hærri. r Joh. 2, 1. Eph. 1, 3.

417. Hvad er innefaled Christi spámannliga Embætte?

Í þvi, ad kienna oss Guds Vilia, oss til vorrar Sáluhialpar, þad giorde hañ fordum i egiñ Persónu sialfur, eñ nu giorer hañ þad med sinum Anda og Þionum.

Joh. 6, 14. Þessi er vissuliga sa Spámadur, sem i Heimin skal koma. Marc. 1, 15. 5 Mos. 18, 18. 19.

418. Hvar

418. Hvar i er innefaled Christi Konungliga Embætte?

J þvi ad stioorna, vidhallda og vernda sina Truada fyrer þeirra Ovinum.

419. Hefur þa þessa Konungur og so nokkurt Konungs Rijke?

Ja, eñ þad er andlegt, sem er hans Kyrkia, edur Naadar-Rijke hier a Jordunne, ur hveriu hann lokſens flytur sina Truada til Dyrdarinnar Rijkes i Himnenum.

Joh. 18,36. Mitt Rijke er eigi af þeßum Heimi.

420. Til hvers a Afervegan Christi Embætts ad upp-ørva þig?

Til ad elska hann, sem minn ædsta Prest og Endurlausnara; ad trua hønum sem minum Spamanne; ad heidra hann, og hlydnast hønum sem minum Konnuge, og med þeßu møote kann eg ad ødlast hina ædstu Huggan af hans Embættum.

421. Hvorniin taka þeir Truadu Nafn af Christo?

Christnir, þad er Smurdir, þvi hann hefur smurdt þa med sinum Anda.

1 Joh. 2,20. Þier erud Smurdir af Heilogum Anda, og vited skyn allra Hluta. Post. Giorn. 11, 26.

422. Eru þa aller Menn i þeßum Christnum Løndum þvilijker Christner?

Nafned bera þeir ad sønu aller, eñ Smurning Andans og Naadina vantar þa flesta.

423. Eru þa þeir Sann=Christnu og so Smurder til andligra Koonga og Spaamanna?

Jaa, og þad audsyna þeir, sem Prestar, i þvi ad uppoffra sig Gude, ad bleßa og bidia fyrer sier og ødrum. Sem Konungar, i þvi ad stioorna sialfum sier med Guds Anda Adstod, sømuleidis ad moot=strijda sinum andligum Ovinum. Sem Spaamenn, i þvi ad kienna, umvanda, aminna og hugga sialfa sig, sem og lijka adra.

424. Maa þa sierhver Christinn, sem einn andligur Prestur taka uppaa sig opinbert Kennimanns Embætte?

Ney, þar til lyder Guds Kallan fyrer Yfervaldsens Tilhlutan. Enn i dagligre Umgeingne, og efter Hendtugleikum ad kienna, hugga og uppbyggia hverannan, er allra Christenna Manna Kall og Skylda.

1 Thess. 5, 11. Fyrer þvi aminni hver ydar annan, og upp=byggi sa eini þann annan, so sem þier og og giørid. Og V. 14. Vier aminnum ydur, Brædur, ad þier aminnid ooraadvanda; huggid i Stødu=litla; hialpid Veikum; verid þolinmooder vid alla.

Ebr. 3, 13. Aminnid ydur sialfer dagliga, so leinge þad heiter i Dag, ad eingin medal ydur verdi forherdtur vegna Svikrædis Syndarennar.

425. Hvert af þeßum þremur Embættum hlyder eiginlega til vorrar Endurlausnar?

Hans Ypparsta-Prests Embætte, efter hvoriu hann er vor Fridþægingar- og Tals-Madur; þo fær eingenn Christum medteked, sem sin Ypparsta Prest, og orded hlut-takan-de i hans Endurlausn, nema þeß hann og med-take hann og fylge sem sinum rietta Spa-manne og Konunge. 1 Cor. 1, 30.

426. Efter því Christi Ypparsta-Prests Embætte er Grundvøllurinn til vorrrar Sæluhialpar, þa seg mier grandt og greinelega, allt þad er heyrer til þekkingar vorrar Endurlausnar?

Hier a eg ad þekkia gloggt þann, sem os hefur endurleyst; þaa sem hann hefur endurleyst; þad Medal med hveriu hann hefur os endurleyst; þad vonda, fra hveriu hann hefur os endurleyst; og þad Takmark, til hvers hann hefur os endurleyst.

427. Eru ei þeßer Hluter utmaaladar i vorum Catechismo?

Ju, þeirra stuttsta InneHalld er innefaled i þeßum: Ad hann se minn Drottinn, sem mig, glatadan og fyrerdæmdann Mann, hefur afrekad, endurleyst og frelsad 2c.

428. Hver hefur oß endurleyst?

Vor Drottinn JEsus Christur, Guds og

og Mariu Sonur, sannur Gud og sannur Madur, hefur oß, efter bardum Nattúru-num, endurleyst.

Post. Giorn. 20, 28. Gud utvegade sier Søfnudikk med sinu egin Bloodi.

429. Hafa þa eige Faderen og heilagur Ande endurleyst os?

Þeir hafa ad sonnu elskad oß, og framsygt vorre Endurlausn. Joh. 3, 16. 1 Cor. 6, 11. Enn Endurlausnena sialfa med Pijnu og Dauda kunnu þeir eige ad utrietta.

430. Þvi eige?

Þvi Faderen er alleina Gud, sem ei getur daed, lijka Heilagur Ande, enn Sonurinn er sannur Gud og sannur Madur, sem hefur fyrer vorar Synder daed, og sinu Bloode uthellt.

431. Hvern hefur Christur endurleyst?

Mig auman, glatadan og fordæmdann Mann.

432. Hvada Vißu hefur þu þar um, ad þu siert endurleystur?

Þeßa Vissu, ad aller Menn eru endurleyster, og eg þeß vegna aisamt med i þeirra Tolu.

1 Tim. 2, 6. JEsus Christur gaf sig sialfan til Endurlausnar fyrer alla.

433. Andsyn eñ nu fremur, ad aller Meñ sieu endurleyster fyrer Christum?

Ad Uppreisnin i Christo nærde allt eins vijdt ut, og falled i Adam, nefnelega til allra, þad kienner St. Paull med morgum ordum, Rom. 5. fra 15. til 21. Vers.

Item 1 Joh. 2, 2. Hañ sami er Forlijkun fyrer vorrar Synder; þo eigi alleinasta fyrer vorar (nefnelega þeirra Truudu) heldur og fyrer allrar Veralldarinnar Synder.

Item 1 Tim. 4, 10. Gud er Frelsari allra Manna, eñ sierdeilis þeirra sem trua.

434. Hefur þaa Christur og endurleyst þaa, sem fyrkum Yfer-bootarleyses og Van-truar steypa sier sialfer i Fordæmingunu?

Jaa.

2 Pet. 2, 1. Þeir afneita Drotteni þeim, er þaa hefur endur-keypt, og munnu þeir leida yfer sialfa sig skioota Fordiorfun.

435. Med hveriu hefur Christur endurleyst oß?

Hverke med Gulle nie Silfre, heldur med sinu heilaga dyrmæta Bloode, og med sinum saklausa Dauda, jaa! ei med Pijnunne alleina, heldur og so med Hlydne og Logmaals sins Uppfyllingu.

1 Pet. 1, 18. 19. Vited, ad þier erud ekke, med forgeingelegum Hlutum, Gulle edur Sylfre endurleyster i fra ydar hiegooma Athæfe, heldur med dyrmætu Bloode Christi, so sem hins saklausa og oflekkada Lambs.

Rom. 5, 19. Þvi ad lijka so sem fyrer eins Mañs Ohlydne eru marger Syndugar ordner, so verda og fyrer eins Hlydne marger riettlaater. Gal. 4, 4.

436. Reid þad so storum aa, ad bruka so dyrmætt Medal til vorrar Endurlausnar?

Jaa, þvi Christi Offurs Bloods maatte ei sialft vera til Hreinsunar vorrar, og Fridþægingar.

Ebr. 9, 22. Aan Blods Uthellingar skiedur ekke Fyrergiefning.

437. Fra hveriu Illu hefur Christur oss endurleyst?

Fra Syndenne, Daudanum og Diofulsins Rijke.

438. Hvernenn hefur Christur endurleyst oss fra Syndenne?

Hann hefur burtteked

1) Syndarennar Sekt og Straff.

1 Joh. 1, 7. JEsu Christi Guds Sonar Blood hreinsar oss af allre Synd.

Col. 1, 14. J hverium vier hofum Endurlausnena fyrer hans Blod, sem er Syndanna Fyrergiefning.

2) Verdur Syndarennar Ok afbroted, og hennar yferraad, jaa! umsijder Root Syndarennar i Daudanum upprætt.

Rom. 6, 14. Synden mun eigi drottna yfer ydur, þvi þier erud ei under Logmaalenu, heldur under Naadenne.

1 Pet. 2, 24. Christur hefur vorum Syndum offrad a sinum Lijkama, uppaa Trienu, so ad vier i fra

Syndunum deidder lifdum Riettlætenu, fyrer hvers Benlar þier erud heilbrigder vordner.

439. Kañ eg ecke til fulls ad vera frelstur fra Straffe Syndarennar, þott eg sie bunden under hennar Yferrædum?

Ney, þad syna þær framfærdu Ritningarennar Greiner, og aller yferbootarlauser fara villt þar i, ad þeir rangfæra Evangelium til holdlegs Sialfrædes, ei fra Syndenne sialfre, hverre þeir i andlegum Dauda þiona Vilia, helldur fra hennar Straffe, fra heriu þeir einasta Vilia frijast, saker Christi.

440. Hvornin̄ hefur Christur os fra Daudanum endurleyst?

So ad sa tijmannlege Daude er ordenn Inngangur til Lijffsens, enn sa andlege hefur mist sina Magt, og hinn eylijfe er ei fremur fyrer Guds truudum Bornum ad vottast.

Joh. 11, 25. 26. Eg em Uppristañ og Lijfed, hver hañ truer a mig, sa mun lijfa, þott hann deye, og hver hann lijfer, og truer a mig, sa skal alldrei deya.

441. Hvernin̄ hefur Christur endurleyst os fra Dioflenum og hans Vallde?

So ad hann hefur eingva Magt yfer oss, helldur kunnum vier ad veita Honum Mootstodu,

ſtødu, og þurfum ei ad hrædaſt hann, ai meþ dauu vier ottunſt Gud.

Ebr. 2, 14. Ad hañ fyrer Daudañ ſkyllde afmaa þañ ſem Daudans Magt hafde, þad er Dioſulen, og fria þaa, ſo marga, ſem ſokum Daudans Otta voru Þrældoms ſeker alla þeirra Lijfdaga.

442. Til hvers hefur Chriſtur endurleyſt þig?

Ad eg verde hans Eigenuligur, life ætid under hans Vallde og i hans Rijke, hønum þione og hlydne veite.

443. Leiſer þa Endurlauſn Chriſti þier øll dungeo ekke ad þioona Syndenne, Diøflenum og Heimenum, edur ad vera þeirra Eigenligur?

Ney, þvi þad er ad ſtela þvi fra Chriſto, Drottne minum, ſem hann hefur ſier ſo dyru Verde keipt.

Luc. 1, 74. 75. Ad vier Leiſter af hende Ovina vorra, þioonudum hønum an Otta, alla vora Lijfdaga, i Heilagleika og Riettlæte fyrer hønum ſialfum.

Rom. 6, 18. Med þvi fyrſt þier erud frelſader fra Syndeñe, þa eru þier ordner Riettlætefins þioonuſtu-menn.

Tit. 2, 14. Hañ gaf ſig ſialfañ ut fyrer oß, uppaa þad hañ endurleiſte oß fra ollu Oorietilæte, og hreinſade ſier ſialfum Folk til Eignar, þad misg koſtgiæfed være til goodra Verka. 1 Cor. 6, 20.

444. Er þad ad ſiaa a Heimſins Børnum, ad Chriſtur hafe þau endurleyſt?

Ney, þvi þau hafa ai ny burtſellt

sig Guds Ovinum, Syndenne og Dioflenum.

445. Hefur Christur vor Endurlausnare ætijd vered i einu Stande?

Ney, hans Stand er tvennslags, nefnelega: Nidurlægingar Stand og Upphafningar Stand. Um bæde talar Paulus

Phil. 2, 6-11. Hañ sem var i Guds Mynd hiellt þad ekke fyrer Ran, Gude lijkur ad vera. Helldur minkade hañ sig sialfañ, og tok a sig Þions Mijnd, vard lijkur ödrum Monnum, og ad Hegdañ fundeñ sem Madur, lijtelækkade sig sialfañ, so hañ vard hlijden allt til Dauda, ia allt til Krossens Dauda. Þarfyrer hefur Gud hatt upphafed hann, og giefed honum þad Nafn, sem er yfer ollum Nofnum, so ad i Nafne JEsu, skulu öll Kne sig begia, þeirra sem i Himnum og a Jördu og under Jördenne eru, og allar Tungur skulu vidurkeña, þad JEsus sie Drottenñ til Dyrdar Guds Fodurs.

446. Hvad er Christi Nidurlægingar Stand?

Þad er þad Stand i hveriu hann effter sinne Manndomlegre Natturu uttæmde sig fra þeirre fullkomnu og iafnlegu Brukan Guddomlegra Eigennlegleika, sem Manndomenum voru meddeilder, og tok uppa sig Þions Mijnd, so ad hann kynne med sinne Hlydne ad forlyka os vid Gud.

447. Hvad er Christi Upphafningar Stand?

Þad er þad Stand i hveriu Christur effter sinne manndomlegre Natturu, ad afstödnu

nu þvi hann leid, er upphafenn til fullkomennar og ofallvaltrar Brukunar Guds Eigennlegleika og vegsemda til ad giøra os hluttakande i þeirre Saaluhialp, sem hann hefur os afrekad.

448. Hvad margar Tréppur eru i Christi diupu Nidurlægingu?

Su Postulega Truarjatning upptelur fim, nefnelega: 1.) Fatæklega Fæding. 2.) Þijnuna. 3.) Krossfestinguna. 4.) Daudann. 5.) Greftraunena.

449. Þvi uppbyriade Christur sitt Lyf med þeirre Fatæklegu Fæding i Stallenum?

Ad hann sem fyrst audsynde þad, hann sokte ei effter Rijkium og Metordum Veraldarennar, helldur alleinasta ad audga os sinne Fatækt. 2 Cor. 8, 9.

450. Hvar i var innefaled Christi Lijdan?

Allt hans Lijf i fra Ungdoome var umvafed med Fatækt, Foragte, Offsokn, Erfvide og Dorvo, enn ad sijdustu var hann sarlega pijndur under þeim Romversta Lands-Hofdingia Pontio Pilato, sem liet hudstrykia hann, þyrne-kryna, hæda og herfelega medfara.

451. Leid Christur einasta utvortis a Lykamanum?

Ney, hans allra stærsta Kvøl var su Hel-

vitſka Saxlar Angiſt yfer vorum Syndum, af hverrar Ofbode hann ſveitteſt Blodenu, og þad kem honum til ad ſegia: Min Saala er hrigg allt til Daudans. Matth. 26, 37.

452. Hvers vegna leid JEſus ſo ſtoor Harm-kvæle?

Vegna vorra Synda og oß til Sæalu-hialpar.

Eſ. 53, 4. 5. Sannarlega þa bar hann vort Krank-dæme, og vornm Piinum hlod hann uppa ſig, fyrer vorar Yfertrodſlur er hañ ſærdur, og vegna vorrar Misgiorda er hañ lemſtradur, Hegningeñ liggur a honum, ſo vier hefdum Frid:ñ, og fyrer hans Benl-ar erum vier heilbrigder vordner.

453. Hvorneñ hagade JEſus ſier i ſinne Pijnu?

Miog þolinmodlega, ſo ſem þad Lamb ſem leideſt til Slatrunar Beckſins. Eſ. 53, 7.

454. Hvad er Chriſti Kroßfeſting?

Eitt miog kvalrædeſlegt, forſmaanarlegt og bolvad Dauda Straff, ſem brukad var til veſtu Odæda Manna.

Gal. 3, 13. Chriſtus hefur leyſt oß fra Bolvan Log-maalſens, þañ Tijd hañ vard Bolvan fyrer oß, þvi ad ſkrifad er, bolvadur ſie ſaa hver ſem a Tre hanger.

455. Er Chriſtur ſannarlega a Kroßenum daenn?

Jaa.

Luc. 23, 46. JEſus kallada harra Roddu, og ſag-de: Fader, i þinar Hendur fel eg miñ Anda, og þe-gar

gar hann hafde þetta sagt, gaf hañ upp sinn Anda.

456. Hafde soddan Daude Christi storañ Krafft til ad framkvæma vort Lijf og Sæluhialp?

Jæ, allra stærsta Krafft, þvi þar med var af vorum Medalgængara Daudenn, sem er Verdlaun Syndarennar, betaladur, og vier hans vegna lauser giefner.

Rom. 5, 10. Vier erum forlijkter vid Gud fyrer hans Sonar Dauda, þa vier vorum hans Oviner.

457. Hvad var Christi Greftran?

Ekke nokkur Naudsijn, þar ed hann ætlade ekke leingur daudur ad vera, helldur Vitnesburdur, ad hann sannarlega være daudur, og þar ad auke huggunarrijk Endurminning, ad vorar Synder eru nidurgrafnar, vorar Grafer helgadar, og þeirra Vidbiodur þeim frættekenn.

458. Hverneñ skal madur alitta allt Christi Lijf og Lijdan i þessu Nidurlægingar-Stande?

Ad nokkuleite og sierdeilis so sem Forlijkun fyrer oss, og ad nokkru sem Heilagleikans og Þolenmædeñar Efterdæme i Lijfe og Lijdan.

1 Pet. 2, 21. Christur hefur lided fyrer oss, og oss Efterdæme efter'æted, ad vier skylldum efftersylgia hans Footsporum. 1 Joh. 2, 6. Joh. 13, 15. Matth. 10, 3. 8. Cap. 11, 29. Luc. 9, 23.

459. Hvad fylgde ꝏ efter Greftranenne, so sem Þeirre siidustu Troppu Niderlæ-gingar-Standsens?

Hans Upphafningar-Stand; hvoriu og tilhlyda fim Troppur, nefnelega: 1.) Hans Nidurstigning til Helvitis. 2.) Upprisa. 3.) Himnafor. 4.) Hægre-hlidar Sæte hia Fodurnum. 5.) Afturkoma ad dæma Lijfendur og Dauda.

460. Hvad er Christi Nidurstigning til Helvitis?

Þad ad hann litlu fyrer sijna Upprisu hefur vitiad samastadar Þeirra Fordæmdu, ad hrosa sinum Sigre yfer Satans Magt, og ad predika fyrer Ondunum.

1 Pet. 3, 18. 19. 20. Christur er deiddur efter Holldenu, enn lijfande-giordur effter Andanum, i hverium hann-gieck burt, og predikade fyrer Ondunum i Fietrunum, hverier fordum Daga ei trudu.

461. Hvad er Christi Upprisa?

Ad hann ꝏ þridia Dege efftir sinn Dauda hefur teked afftur sitt Lijf, forklaarad sinn Lykama, og i honum synt sig opeunberlega.

Post. Giorn. 2, 24. Gud uppvakte JEsum, ad uppleystum Daudans Kvolum fyrer Þvi, ad Þad var umogulegt, ad hann skyllde af honum halldenn verda.

462. Hvad a

462. Hvada Nytsemd høfum vier af Christi Upprisu?

Allra stærstu Nytsemd

1) Til vorrar Truar Stadfestingar um̄ fullkomna Borgun fyrer vorar Synder, þar ed vor Medalgaungare er utkom̄en af Fangelse Daudans.

Rom. 4,25. Sa er fyrer vorar Synder var ofurselldur, og fyrer vorrar Rettlætingar saker uppreistur.

2) Til vorrar andlegrar Upprisu og heilags Fram̄ferdes i Endurnijung Lijfnadarens, og ad sijdustu til Upprisu vorra Lijkama i Vegsemd.

Rom. 6,4.5. Lijka so sem Christur er upprisen̄ fra Daudum fyrer Dyrd Fødursins, so eigum vier ad ganga i Endurnijung Lijfdaganna, Þvi fieum vier plantader med honum effter Lijking hans Dauda, Þa eigum vier og effter Upprisunnar Lijking eins ad vera.

463. Var Christur ad safnade hier a Jørdu effter sina Upprisu?

Ney, þar hann i fiorutijger Daga hafde hier umgeingest med sinum Læresveinum i adskilianlegum Openuberunum, og talad fyrer þeim um þad sem heyrde til Guds Rijke, viek hann fra Heimenum, ad sinne fyrrlegre Naulægd, og for upp yfer alla Hımna

 Him=

Himna til Guds Vegsemdar Himens, og hægre-Hiijdar hans Hátignar.

Post. Giorn. 1, 9. Og þa hann hafde þetta sagt, vard hann þeim asiaændum uppnumenn, og eitt Sky tok han i burt fra þeirra Augum.

Ebr. 9, 24.

464. Hvada Gagn høfum vier af Christi Himnafør?

1.) Þa Huggun ad JEsus er faren burt ad til Bua oss Samastad i Huse sins Himneska Fodurs, og vill flytia oss þangad til sijn,

Joh. 14, 2. J mins Födurs Huse, eru margar Vistar-verur: Eg fer burt ad tilbua ydur samastad?

2.) Þa Aminning ad vier skulum hafa eitt Himneskt sinne, iá! lijst til adskilijast hier vid, og vera med Christo.

Colloss. 3, 1. Sieur þier nu, aftur uppriener med Christo, þa leited þess sem þar uppe er, þar sed Christur er, sitiande til Guds hægre-Handar.

465. Hvad merker Christi Seta þil Fodursens hægre-Handar?

Ad Christur effter sinne Manndomlegre Natturu, med fullkomnu, og oendanlegu Herradæme rædur og stiornar ollum Hlutum.

Eph. 1, 20. 21. Gud hefur uppreist Christum fra Daudum og sett hann til sinnar Hægre-Handar, a Himnum laangt yfer allan Hofdingskap, Valldstiett, Magt og Herradæme.

466. Hvada

466. Hvada Gagn høfum vier af Setu Christi til Guds Hægre Handar?

Þar af vitum vier oß til Huggunar, ad Hañ i sinu Guddoms Hæasæte stiornar sinne Kyrkiu, hefur sina Ovine i Taume, bidur fyrer oß, sender oß sin Heilaga Anda, og soleides kappkostar i sinu Upphafningar-Stande ad giora oß hluttakande i þvi sem han i sinu Niðurlægingar Stande hefur oß av-uñed, hvar ær moot þad er vor Skyllda, ad vier heidrum, hlydnust og tilbidium so hatt upphafeñ Hofdingia.

Psl. 110, 7. Drottiñ sagde minum Drottne: sittu mier til Hægre-Handar, þangad til eg legg Ovine þina til Skarar Fota þiña. Rom. 8, 34.

467. Er Christus þa ei framar nalægur hier a Jordeñe?

Ju! i kroftugum, þoo usynelegum mæta.

Matth. 28, 20. Sia, eg em med ydur alla Daga, iñ til Veralladareñar Enda.

468. Nær vill hann i annad sinn aftur koma, synelega til Veralldarennar?

Aa þeim sijdasta Dege, hver alleina er Gude kuñur.

Post. Giorn. 1, 11. Þesse JEsus, sem uppnumeñ er fra ydur til Himens, mun aftturkoma, lijka sem þier saaud hañ til Himens uppfara.

Luc. 21, 27. Þa munu þier sia Mansens Son koma i Skyunum med Kraffte og mikillre Dyrd.

469. Hvernin mun ganga til að Doms-Dege?

Aller Menn, bæde þeir þar lifa, og hiner er aadur voru dauder, og þaa uppvakter skulu þeir þijma særast fyrer Christi Domstool, og þar þeirra þankar Ord og Verk dæmast, efter Guds Orde: Dioflarnar skulu þar og dæmast.

Post. G. 17, 31. Hann hefur Dag tilsett, að hverium hann vill dæma Jardarkringluna med Rettvijsse fyrer einn Mann, sem hañ hefur til þess sett.

1. Cor. 4, 5. Dæmed ekke fyrer Tijmann, þar til Drottenn kemur, sa ed Auglysa mun eirnin þad i Myrkrunum er huled, og opennber giøra Raaden Hiartnaña, og þaa mun hverium sem einum Lofstier skie af Gude.

2 Cor. 5, 10. Vier hliotum aller ad opennberast fyrer Doomstoole Christi, uppa þad, ad hver eirnn odlest effter þvi sem hann hefur adhafst i Lijkamans Lyfe, hvert helldur er Jllt eda Got.

2 Thess. 1, 6. 7. 8. Þad er rett hia Gude ad endurgialda þeim Hørmung, sem ydur Hørmung veita, En ydur, þier sem Hørmung lijded, Hvijld med oss, þa er Drottenn JEsus mun opennberast af Himne medur Einglum sins Krafftar, og med Elldsens Loga, Hefnd ad veita þeim er ecke þeckia Gud, og yfer þaa sem ecke eru hlyduger Evangelio vors Drottens JEsu Christi.

1 Cor. 6, 2. 3. Vited þier ecke þad Heilager munu Heimenn dæma? Vited þier ecke, ad vier munum yfer Einglunum dæma?

Joh. 12, 48. Þad Ord sem eg hefe talad, þad mun dæma þan að efsta-Dege.

470. Er þad nu noog ad þu veitst alla þessa Hlute um Christum og belldur þa fyrer sanna?

Ecke utan fyrer Heilage Ande med lifande Tru utmaale Christum i minu Hiarta og sozleides helge mig i Sannleikanum.

Su þridia Greinen,

## Um̃ Helgunena.

Eg true at Heilagann Anda, og ad sie ein Heiløg, almenneleg, christelig Kyrkia, Samneite Heilagra, Fyrergiefning Syndanna, Holdsins Upprisa og effter þetta Liif eylyft Liif. Amen.

Þad er.

Eg true, ad eg giete ei af sialfs mins eiginn Krafte eda Skilning truad a JEsum Christum minn Drottinn, eda til hans komest, heldur hefur H. Ande mig fyrer Gudspiallanna kenning kallad, og upplyst mig med sinum Naadargiofum, helgad mig og vidhalded i riettre tru, lijka sem hann alla adra Christna Menn a Jordu, kallar, samansafnar, upplyser og helgar, og i riettre Tru til JEsum Christum vardveiter. J hvørre christelegre Kyrkiu hann naaduglega fyrergiefur mier og øllum Truudum dagle-

gä allar Synder, og at efsta Dege mun hañ uppvekia mig og alla Menn af Dauda, og giefa mier med ollum Riett-truudum i Christo JEsu eylijft Lijf og Sæluhialp. Þetta eru vißulig sanninde.

471. Truer Þu a þaa almennelegu christelegu Kyrkiu?

Ney, helldur true eg ad heilog almenneleg christeleg Kyrkia sie til.

472. Truer þu þaa a Heilagann Anda?

Ja, eg true a hann, eins og a Fodurenn og Sonenn, med hverium hann er ein Guddomleg Vera.

473. Bevisa þu mier ad Heilagur Ande sie ein Guddomleg Persona?

Þad bevisast ei einasta af þeim Guddomlegu Eigennlegleikum og Verkum, sem honum offtlega i Ritningunne tilleggiast, helldur og so af utþrykkelegu Nafne Guddomsens.

Post. G. 5, 4. 5. Anania, þui uppfyllte Andskotenn Hiarta þitt, so ad þu skylldir liuga ad Heilogum Anda? Eige hefur þu loged ad Mönnunr, helldur ad Gude.

1 Cor. 3, 16. Vited þier ekke, ad þier erud Guds Mustere, og ad Guds Ande bygger i ydur.

1 Joh. 5, 7.

474. Þvi kallast hann Anda?

Vegna þess ad hann i Guddomlegann

Maata,

Nauta, sem Ande Guds Munns (Ps.36,6.) framgeingur fra Syliffo of Fodur og Syne.

Joh. 15, 26. Þegar sa Talsmadurenn kemur, hvern eg mun senda ydur af Fodurnum, sa Sannleikfens Ande, sem af Fodurnum framgeingur, hann mun bera Vitne af mier.

475. Vegna hvers kallast hann Heilagur Ande?

Ei einasta þeß vegna ad hann er sialfur i sinne Veru heilagur, helldur og þar fyrer ad hann framkvæmer i Monnunum Verk Helgunarennar.

476. Hveriar eru Þær fierlegustu Verkaner Heilags Anda?

Ad kalla, upplysa og vidhallda.

477. Riidur mikel Mage a Þvi ad þeckia þeßar Verkaner Heil. Anda i Salunne?

Ja, Þvi þar effter verdur hver einn ad proofa sialfann sig, hvert hann sie GUds Kyrkiu riettelegur Limur.

478. Hvad er Þad Guds Kallan?

Ad hann med sinu Orde hrærer Mannanna Hiortu, openberar þeim sierdeilis sina Naad fyrer Evangelium, og frambijdur hana alvarlega, og giefur þar hia Styrk til ad medtaka hana.

2 Tim. 1, 9. Gud hefur oß hialplega giort, og kallad med heilagre Kallan, ekke effter vorum Verkum, helldur effter sinne Fyrerhyggiu og Naad.

479. Hver

479. Hver onnur Hialpræðes Meðøl brukar Gud að uppvekia og kalla Mennena til að leita Sæluhialparennar?

Hier til brukar hann stundum Hirtningar, stundum Velgiorninga, stundum annarra Effterdæme, og annað fleira, sem kann að leiða Mann til Ihugunar.

480. Taka þa aller Menn a moot hvilijkre Guds Kallan?

Ney, marger standa a moote helrre Heil. Anda Raið, er ai undanngeingar að tilreiða þar, hversvegna þeir ei kunna að verða nlyfande Naiðarennar Ibudar.

481. Gietur maður mootstaðeð Guds Kallan?

Jaa.

Post. Giorn. 7, 51. Hier t mootstandeð jafnann Heil. Anda.

Es. 65, 2. Eg utbreidde Hendur minar þann allann Dag til Hverskallaðs Folks.

484. Hvermeðtekur þa Guds Kallan?

Þeir sem meðtaka Orðeð i eitt fust Hiarta, og bera Avöxt i Þolenmæde, það er, þeir sem snua sier, og trua Evangelio, hvert að er Kraftur Guds til Sæluhialpar, eim reinasta hia þeim sem trua. Rom. 1, 16.

483 Hvað verkar Guds Kallann i Hiartanu þar Maður ei mootstendur; helldur giefur henne Rum?

Upplijsing, það er eina lijfande Þecking og

og kroftuga Sanfæring unt þan Guddomlega Sanleika. J hvern Madur fær þar fyrst indsied og han smackad riettelega. Joh. 7, 17.

484. Er þa hinn ogudlege ei upplijstur, fyrer þui hann er skijr og froodur i Ritningunne!

Ney, han er en þai Mirkrana Barn, og þecker ei Lioossens Fodur.

1 Sam. 2, 12. Eli Syner voru Belials Børn, og þecktu eige Drottenn.

Jer. 2, 8. Prestarner søgdu eige, Hvar er Drottenn? og þeir sem umgeingust med Løgmaaled, þecktud mig ecke, og Hyrdararner giørdu Yfertrodslur ꝏ moote mier.

Joh. 8, 54. Þier seged, hann sie Gud, og þekked hann þoo ecke.

1 Joh. 2, 3. 4. Og þar af vitum vier ad vier þekkium hann, ef ad vier vardveitum hans Bodord. Hvør sem seger, eg hefe þekt hann, og helldur ecke hans Bodord, hann er einn Lingare, og i høunum er ecke Sannleikurenn.

Eph. 5, 8. Þier vorud fordum Myrkur, enn nu erud þier Lioos i Drottne, umgangest sem Lioossens Børn.

485. Seg mier þann eigenlega Mismun, sem er ꝏ millum mannlegs Lærdooms og Gudlegrar Upplysingar?

Sa manlege Lærdomur fæst med holldlegre Skynseme, og Kostgiæfne af Guds Orde, hvers Krafste þar verdur motstadeo,

hann

han er alleina i Heilanum so sem ein Fræso-gu Þecking, og lætur þvi mann:n i Vondskune vera þann han er. Enn Upplysingenn skedur af þvi sama Orde Drottens ad samverkanda Heilogum Anda, hver ed þar sær Rum i Sææluñe og Herbergiar þar, hun innteknr Hiartad, og er samfara einne lysande Reinslu, so ad hun effter Hendenne utrijmer alla Mot'strijdu Vilians.

486. Hvad skilst fyrer þad Ord Helgan?

J Fiollda-Meining innebindur þad i sier þetta þrent sem fylgest ad, Endurfæding, Rettlæting, og Endurnyan. Annars merker þad oft einasta daglega Endurnijan.

487. Hvad er Endurfædingenn? Edur su Nia Fæding?

Þad sama sem Meddeiling lifande Truar edur Uppvakning af þeim andlega Dauda, Umvendan og Flutningur fra Myrkrunum til Liosens, fra Satans Magt til Guds.

Eph. 2, 4. Gud giorde oss lifande med Christo, þa vier vorum dauder i Syndunum

488. Seg mier enn þ.n skyrligar hvad Endurfædingenn er?

Hun er ey sem Nicodemus meinte, ad madur skyllde hverfa aftur i sinar Moodur Lijf, þar hann være ordenn gamall, og fædast so ad nyju, Helldur er Endur-fædingenn

genn sierdeiles innvortes, og andlegt Guds Verk i Mannsins Hiarta, hver þai fædest ad niju, er i Hiartanu skapast, uppa einn oß ofiliannlegann mata, nij Gudleg art, og Eigennlegleike; J Skilningnum nij Upplysing, Vilianum nij Efftterlangan, Lyst og Krafftur, og so yfer høfud, allt nijtt Lijf, i þeim sem annaꝛs var andlega daudur, hvert Ritningenn Kallar nijtt Hiarta, nijann Anda, nija Manneskiu, edur nija Skepnu.

Ez. c. 36, 26. Eg vil gefa ydur nijtt Hiarta, og nijaun Anda i ydur, og eg vil burttaka Steinhiartad ur ydar hollde, og giefa ydur Kiøtlegt Hiarta.

Joh. 3, 6. Hvad af Holldenu er fædt, þad er Holld, og hvad af Andanum er fædt, þad er Ande.

489. Afhvada Medølum verkast Endurfædingenn?

Hiai Ung-Bornunum fyrer Vatn og Anda i Sacramente Skyrnarennar, Enn hiai þeim fullordnu, sem vegna Andvaraleises, edur Overmoodsku Synda eru fallner fra Skijrnarennar Nayd og Endurfædingarennar Stande, odlast hun afftur af nij fyrer Guds Ord sem er þad oforrotnannlega Sæde. 1 Pet. 1, 23.

490. Eru

490. Er þaölldunges naudsynlegt til Saaluhialpar, ad vera Endurfæddur?

Jaa vissulega.

Joh. 3, 3. Nema so sie, ad nokkur verde ad niju fæddur, hann kann eige ad sia Guds Rijke.

Gal. 6, 15. J Christo JEsu gyllder hverke Umskure nie Yferhud nockud, helldur nij Skepna. 2 Cor. 5, 17.

491. Hvar af fær Madur þeckt, ad hann er endurfæddur?

Þad þeckest af Hiartans alvarlegre Um̃breiting og þeim niju Naudarennar Gaafum, sem giora hann þeckiatfulega, ad nyrre og annare Manneskiu.

492. Hvad ödlast þaa eigennlega Manneskiann med Endurfædinguñe, sem hun hafde ei adur?

Hann fær þaa sonnu lifande Tru, sem um̃fadmar Christum, og i honum sonarlegann Utvalningar Anda med Riette til Guds Rijkes, somuleides Ynde og Krafft ad giora Guds Vilia.

Joh. 1, 12. 13 Enn so marger sem han medtooku, þaa gaf hann þeim Magt Guds Bornum ad verda, þeim sem aa hans Nafn trua. Þeim sem ekke eru fædder af Bloodenu, ei helldur af Holldsens Vilia, ei helldur af Mannsens Vild, helldur þeim af Gude eru fædder.

493. Hvad er su sanna lijfande Tru, sem giefenn er med Endurfædingunne?

Truean er eintar sannydrande Sailar

Aͤhvarf til Guds Naidar i Forþienuſtu Chriſti, hver ed verdur gladlega medtekenn, tileignud, og med einlægu Trauſte uppabygt.

494. Hvernenn utmaalar Lutherus Þaa ſønnu Tru?

Truenn er lijfande oorugg Huggun um̃ Guds Naid; huu er Guds Verk i oß, ſem um̃ſkiffter og ad nyu fæder oß af Gude, deyder Þann gamla Adam, giorer oß ad olldunges odrum monnum, ad Hiarta, Hug, Sinneslage og ollum Krofftum, og færer med ſier Heilagan Anda. Oo! hvad lijfande, krofftug, megnug og aakof er Truen!

Sioa Formaalan til Romveria.

495. Hvad marger Partar tilhliida eigennlega Þeirra ſønnu Tru?

Þrijr, uefnelega:

1) Lijfande Þekking um̃ Gud og hans Vilia, ſem er openberadur i Ordenu.

Joh. 17, 3. Þad er Þad eylijfa Lijfed, ad Þeir Þecke Þig einaſta ſannan Gud, og Þann Þu utſendter JEſum Chriſtum.

Rom. 10, 14. Hvernenn ſkulu Þeir trua aa Þañ, um hvern Þeir hafa ei heyrt.

2) Þar næſt lijfande Medhalld edur Sampykke og Sannfæring um̃ Sannleika Þeß er madur veit af Guds Orde.

Joh. 3, 33. Hver sem medteku: hans Vitnesburd, hefur innsiglad, ad Gud sie sannordur.

Ebr. 11, 1. Truen er örugt Traust þeirra Hluta sem madur vonar, og efar ei um þad, sem hann sier ecke.

3) Ein lijfande Tileinkan Guds Naudar i Christo, somuleidis Von og Traust til þeirrar somu, hvert helldur hun lætur sig i Ljoose i sann-brennande Laungan og Hungre efter Christo, edur i stærre Fullvissu um Naudena og Hvijld i Christo.

Matth. 5, 6. Sæler eru þeir, sem hungra og þyrsta efter Riettlætenu, þvi þeir skulu sadder verda.

Rom. 8, 33. 34. Hver vill asaka Guds Utvalda? Gud er sa sem riettlæta giorer. Hvor er hann sem fordæmer? Christur er sa sem dauen, ia miklu meir, er og upp aftur risen, hver ad er i Guds hægre Hende, og framgeingur fyrer oss.

496. Þvi kallast þesse þecking Samþycke og Tileinkan ein lijfande Tru?

Vegna þess, ad þesser Hluter ei alleina eru verkader af Guds Orde, sem er Lijf og Ande, helldur og so audsyna sig lijfande og kröfftuga i Hiartanu, hvert ad ekke giorer hin dauda Tru.

497. Hvad er daud Tru?

Hun er falskur þotte, sem yferbootarlauser Syndarar smijda sier, um þad ad odlast Naudena, þott þeir ekke snue sier, og leite Naudarennar riettelega, helldur framhallde oum-

doumbreitter, þar ed þo Truarennar Eigennlegleike er ad umbreita Manne.

Jac 2, 26. Eins sem Lijkamenn er an Anda daudur, so er og Truenn an Verkanna daud.

498. Hafa þeir Umbootarlausu eingva sanna Tru?

Ney, alldeiles einga, iafnvel þott þeir kunne allt Guds Ord, hallde þad fyrer satt, og hugge sig þar vid, þa er þoo þeirra Tru daud Tru, og þeirra aisigkomulag fordæmannlegt, so leinge sem Truenn herbergiar einasta i Heilanum, og kiemur ey i Hiartad, edur deyder hann gamla Adam, og endurfæder hann til nijrrar Manneskiu.

499. Hvar af get eg þeckt þad hvørt miin Tru er daud edur lifande?

Af hennar kroftugre Verkan i Hiartanu, sem er Kiærleike til Guds og Naungans, Hatur til Syndarennar, Sigur yfer Heimenum, Naudarennar Medala retteleg tijdkan, og fleijra þessu lijkt.

Jac. 2, 18. Syn mier Tru Þina af Þinum Verkum.

Luc. 6, 43. Eckert gott tre fæter fuenn Avoxt.

Post. G. 15, 9. Gud hreinsade þeirra Hiortu fyrer Truna.

1 Joh. 5, 4. Allt hvad af Gude er fædt, þad yfervinnur Heimenn og þesse er sa Sigur sem Heimenn hefur yferunned, nefnelega vor Tru. 1 Pet. 2, 2.

500. Hvr

500. Er su sanna Tru alliid, og hia øllum eins sterk?

Ney, þvi þar hun arreitest af Vantru, er hun tijtt miøg veik og Skialfande, sem titrande hønd, er varla vogar ad taka til Drottens Naudar, edur tileigna sier hana, enn utbreider sig þoo i Hiartannlegre laungan og Gyrnd effter þvi.

Marc. 9, 24. Eg true, Drottenn, hialpa minne veikre Tru.

[501. Er Gud vel tilfrids med soddan veika Tru?

Jaa, þar hun einasta er sønn og Einlæg i sinne veike, hvort þar hellst merkest af alvarlegu Hatre til Syndarennar, og Laungan effter frekare Styrking, iafnvel þott til Truarennar Hugprýde finnest þar ei.

Matth. 5, 3. 6. Sæler eru andlega Fatæker, þvi þeirra er Himnarijke. 1 Joh. 3, 19.

502. Hvada Gagn hefur madur af slijkre Tru, sem hann ødlast fyrer Endurfædinguna?

Allra stærsta Gagn, þvi Truenn alleina er þad sem høndlar Christum, og giører Syndarann riettlatann, þad er, Hluttakara i Christi Riettlæte.

Rom. 5, 1. Vier sem erum riettlater giørder fyrer Truna, høfum Frid vid Gud fyrer vorn Drottenn JEsum Christum.

503. Hvad er Riettlætingen̄ þa?

Hun er Endurfædingarennar allra nærste Avortur, og er þar i innefalenn, ad sa þrijeine Gud af einskiærre Naud sinne, alljkiar Frijann fyrer sinum Doome einn alvarlega afsturfinnen og truande Syndara, bæde fra hans Synd og forþientu Straffe, og þar afftur aa moot tilreiknar honum Riettlæte Christi, og alijtur hann i Christo, sem hann alldrig hefde syndgad.

2 Cor. 5, 21. Þann sem ecke visse af Synd, giørde hann ad Synd fyrer oss, uppa þad vier skylldum verda Guds Riettlæte i honum.

Rom. 3, 28. So alijktum vier nu skynsamlega, ad Madur verde riettlaatur fyrer Truna, aan Logmaals Verka.

Gal. 2, 16. Med þui vier vitum þad Madurenn verdur ekke riettlaatur fyrer Logmaalsens Verk, hellldur fyrer Truna aa JEsum Christum; So truum vier og einnen̄ aa JEsum, uppa þad vier yrdum riettlaater fyrer Truna aa Christum, og ekke fyrer Verken̄ Logmaalsens; þui fyrer Verken̄ Logmaalsens verdur ekkert Holld rettferdugt.

Les fremur Rom. 4, 2. 8. Phil. 3, 8. 9. Eph. 2, 8. 10.

504. Er þaa þvilijk riettlæt Saal i rietsælu og betra Tilstande en̄ adur?

Ja vissulega! þvi hun er nu nær teingd ordenn þeim þrijeina Gude, er byr i Hjarta nu so sem i sinu Mustere, hun er audug orden̄ i

 Christo

Christo af þeim andlegu Gaafum, þeim himnesku goodu Hlutum af Evangelii otalanlegum Vegsemdum, af Naadarennar og Saaluhialparennar rijkuglegum Audæfum og Fiaarsioodum.

Psal 32, 1. 2. Sæll er sa Madur, sem frelsadur er fra Yfertrodslunñ, hvers Synd er hulen. Sæll er sa Madur hverium Drottenñ tilreiknar ekke Syndena, i hvers Anda eingenñ Flærd er.

505. Hveriar eru þaa sliikar Naadar gaafur Evangelii?

Christi Riettlæte, Syndanna Fyrergiefning, sonarleg Utvalning, Guds fodurleg Forsorgun, Erfda-Retturenn, Fridur vid Gud, sonarlegt Traust, Guds Elsku Sætleike, Adgangur til Guds, og Dirfd til ad bidia, Fullvissa um̃ Guds Naad, um̃ Bænheyrslu og Hialp i allre Neijd, sierdeilis kroßftug Verndan fyrer ollum̃ Ovinum, synelegum og osynelegum, Forsmeckur eylijfs Lijfs, Glede i Heilogum Anda, Stiornan, Lioos, Uppørvan og Krafftur þeß sama Anda, Frijan fra Yfer-raadum og Straffe Syndanna, fra Guds Reide, Logmaalsens Bolvan, og þrugan, fra Satans, Helvites og Daudans Magt, fra Heimenum og illre Samvitsku, allra Hluta, jafnvel þijngstu Pijsla afdrifum, truudum̃

dum til hins Besta; lifande Von um̃ Sa-
luhialpena, hvar siidast efterfylger su oo-
utsegiannlega eylijfa Glede og Vegsemd i
Himnenum, og s. f.

Eph. 1, 3. Lofadur sie Gud og Fader Drottens
vors JEsu Christi, sem blessade oß med allre andle-
gre Blessan i himneskum Giædum i Christo.

Eph. 3, 8. Mier hinum allra minsta Medal allra
Heilagra er þesse Naad giefen, þad eg kunngior-
de medal Heidena Þioода þan ooranusakannlega
Riikdom Christi.

Rom. 10, 15. Hversu friider eru Fætur þeirra,
sem Friidenn boda i Evangelio, sem boda þan
Giædenn i Evangelio!

506. Smackar alltiid hver ein og eins Riettlæ-
tur þessa Sælur?

Ney, sierdeilis i Sorg og Freistingum,
þarfyrer mæ hver ein Truadur med stærstu
Umhijggiu keppast vid med Truarennar
Framfør ad tileinka sier þær, i Otta og Gle-
de þær ad varдveita, og þar af odlast Lyst
og Efling til Framfarar i daglegre Endur-
nijan edur Helgan, sem æ efterfylger Rett-
lætingunne.

Eph. 1, 16. 17. 18. 19. Eg læt ei af, þacker ad
giøra fyrer ydur, i þvi ad minnast ydar i minum
Bænum; Þad Gud vors Drottens JEsu Christi,
Dyrdarennar Fader, giefe ydur Visdoms og
Opennberingarennar Anda i sinne Vidurkenningu,
sem er ydar Skilnings uppiyistu Augu, ad þier mei-

ged vita, hvilijk ad er su Von, sem Þier erud tillalla-
der, og hverad sie Rijkdomur hans dyrdarfullu Arf-
leifdar i Þeim Heilögu, og hver ad sie su yfergnæ-
fanlega Stærd hans Krafftar vid oß, vier sem
truum effter Verkan hans volldugaa Styrkleika.
2 Cor. 4, 3. 4.

507. Hvad er eigenlega Endurnijanen̄?

Daglega ad afklæda sig Þeim gamla Man-
nenum, edur ad læta af Syndunum, og i-
klæda sig aftur Þeim nya Manne, edur ad
lata sier daglega fara fram̄ i Þvi Gooda, so
sem i Upplysingu og Þekkingu Guds, Tru,
Von, Kiærleika, Audmykt, Hoogvære, Þo-
lennmæde, Sialfs-afneitan, Lysting til Bæn-
ræktar og Guds Ords, Styrkleika ad strijda
moot Syndenne, og ad keppast effter Helga-
nenne, og s. f.

Eph. 4, 22. Aflegged Þann gamla Mannen, effter
Þeirre fyrre Breitne, sem sig fordiarfar i Gyrndum
Villudomsens, og endurnyest i Anda ydvars Hug-
skots, og iklæded ydur Þeim nya Mannenum, sem
effter Gude er skapadur i Riettlæte og Heilagleika
Sannleikans.

508. Þvi kallast Þesse Endurnyung dagleg?

Þvi hun er ei sem Riettlætingenn, strax
fullkomenn, helldur hlytur Madur med dag-
legre Ydne uppa hana ad erfida alla sina
Lijfdaga, ad Guds Mynd, Sinne og Edle
meir og meir Þekkest i hia honum sem Guds
nyfæddu Barne:

Þvi.

Phil. 3, 12. Ecke ad eg hafe allareidu høndlad þad, edur sie þegar fullkomenn, helldur kieppest eg þar efter, ef eg feinge høndlad þad, so sem eg em høndladur af Christo.

509. Hver er sǽ sijdaste Velgiørningur Heil. Anda vid Manneñ?

Þad er vidhallded, þvi þar hann hefur helgad oß med Endurfædingunne, Riettlætingunne og Endurnyaninne, þa vidhelldur hann os og so fyrer sanna Tru, i allskonar Freistingum, inn til Enda, ef vier ei follum fra af þvermoodsku.

Phil. 1, 6. Hann sem hefur uppbyrlad þad gooda verked i ydur mun þad og fullkomna, inn til Dagsens JEsu Christi.

Sia fremur 1 Pet. 1, 5. Cap. 5, 10.

510. Hverneñ vidhelldur Heil. Ande þeim Truudu?

Med þvi hann innvortis sannfærer edur avijtar, fræder, leider og huggar þeirra Hiortu.

511. Hvad er Heil. Anda Sannfæringar edur Avijtunar Erabætte?

Þ id ad hann giører Samvitskuna vidkvæma, ad allar, ja þær minstu Synder og so særa hana, ad hun alvarlega audmyker Mann.

Joh. 16, 8. Þa Talsmadurenn kemur, straffar hann Heimenn fyrer Syndena, Riettlæte og Doom.

512. Hvad er Uppfrædingar Embætte Heilags Anda?

Ad hann med Guds Orde meir og meir opnar og upplyser Mannsens Skilning, og stadfester Sannleikann i Hiartanu, at moote ollum Villulærdoome.

1 Joh. 2, 20. 27. Þier hafed Smurning af H. Anda, og Þecked allt ꝛc.

513. Hvad er Heil. Anda Leidrettingar Embætte?

Ad hann med sinne heimuglegre Aviisun og Vidvorun, helldur Manne fra þvi ad syndga, enn uppvekar hann og hvetur til hins gooda.

Rom. 8, 14. Hverier sem leidast af Guds Anda, þeir eru Guds Born.

Gal. 5, 16. Umgangest i Andanum, þaa munud þier ei fullkomna Holldsens Girnder.

514. Hvad er Huggunar Embætte Heilags Anda?

Ad hann minner hvern sann Christenn a, sierdeilis a Neydar og Freistingar Tijma, Guds Nꝏdarrijka Hiartlod, giefur honum ad smacka Evangelii Huggunar Krafft, og vidhelldur honum so i Þolennmædenne med lijfande Von.

Rom. 15, 13. Gud Vonarennar uppfylle ydur med allsháttadre Glede og Fride i Trunne, so þier kynnud ad vera yfeegnæfanlegur i Vonenne i Krafft Heil. Anda.

Rom.

Rom. 8, 16. Sa sami Ande ber Vitnesburd med vorum Anda, ad vier sieum Guds Børn.

515. Þegar Ande Guds hefur nu soleidis helgad Mennena, og vidhelldur þeim, hvad kallast þeir þa?

Helgader edur helger Meñ.

Eph. 1, 1. Þeim Helgu, sem eru i Ephesso, og Truudu i Christo JEsu.

Psal. 86, 2. Vardveit þu Sal mijna, þvi eg er Helgur þiñ.

516. Hvar finnast þesser Helger?

J heilagre, almennelegre, christlegre Kyrkiu.

517. Hvad skilst hier fyrer Kyrkiu?

Ekke einasta eitt Hus af Tre edur Mur, helldur er Kyrkiañ Samfundur, Samkunda og Sameining Mannanna i Andanum.

518. Eru soddañ Kyrkiur edur Samfunder marger til?

Ei utañ ein, sem er almenneleg, þad er, ei bundeñ vid nokkud vijst Plats, helldur er dreifd yfer alla Verølldena, hvar hun er strijdande, enn skal sijdañ verda a Himnum sigre hroosande.

519. Þvi kallast Kyrkian christeleg?

Þvi hun medkenner Christi Lærdom, og hefur Christum alleina fyrer sitt Høfud og Herra.

520. Er þad þa alltid ſöñ chriſteleg Kyrkia, ſem medkenner Chriſti Nafn, og vitnar til hans?

Ney, ekke aun þeß hun kenne Chriſti Ord ſoo falſad, og bruke þau heilogu Sacramenta efter hans Jñſettningu, hvert ad er Kyrkiunnar Kennemerke.

Joh. 8, 31. 32. Ef þier bliiſed vid mina Rædu, þa erut þier ſannlega miner Lærefveinar.

521. Verda þeir þa aller Sæluholpner, ſem kiiſa og deya i þeirre ſönnu Kyrkiu?

Ney, ekke aller Limer þeirrar ſynelegu Kyrkiu, helldur þeirrar ooſynelegu verda Sæluholpner.

Matth. 22, 14. Marger eru kalladir, eñ faaer utvaldir.

522. Eg meinte ad ei være utan ein Kyrkia, hver er þa Mismunur þeirrar ſynelegu og ooſynelegu?

Hun er ei utan ein, eñ i þeim utvortis og ſynelega Hoop eru tvennſlags adſkilianleger Limer, nefnelega: Hræſnarar og ſañ Chriſtner.

523. Hverier eru Hræſnarar, og einaſta utvortis Limer?

Þeir ſem af toomre Medkenning hroopa: HErra! HErra! enn giöra ei Vilia Fodurſins, ſem er a Himnum. Matth. 7, 21.

524. Hverier eru Sann-Christner og riettleger Kyrkiunnar Limer?

Þeir sem i Trunne giora Guds Vilia, so þeir hallda sier vid Drottenn, og eru ein Ande med honum. 1 Cor. 6,17.

Rom. 8,9. Hver sem ei hefur Christi Ande, hann er eigi hans.

525. Gietur madur alltijd þeckt þaa sijdustu fra þeim fyrstu?

Drottenn þeckter alltijd sijna, enn fyrer Mannanna Augum er saa Mismunur eige alltijd opinber; þvi kallast Kyrkian oosyneleg, ad hennar Limer eru hulder midt i þeim stoora utvortes Hoop Hræsnaranna.

526. Meiga þeir Sann-Christnu hafa Samfielag med Hræsnurunum?

Eigi i þeirra Vondsku; þvi Lioosid hefur ei Samfielag med med Myrkrenu, edur Christur vid Belial: enn i Kaup-hondlan, Erfide, edur sodru þesskonar naudsynlegu, kunne þeir ei slaa sier fra þeim; þvi annars yrdu þeir ad fara Heimin.

527. Hafa þaa þeir Sann-Christnu nockurt nakvæmt Samfielag sijn i midlum innbyrdes?

Ja vissuliga: þvi þar þeir aller eru Limer a einum Lijkama, Greiner aa einu Trie, og Born fædd af eins Fodurs Sæde; þa hafa þeir broodurlegt Samfielag og Hlutdeild i

Sorg og Glede, i andl-gum Saxsum og Velgiorningum, i Bænum og Fyrerbænum, so vel sem i Trunne og Von þeirrar eylijfu Arfleifdar.

Eph. 4, 3-6. Vered kostgiæfner, ad hallda Eindrægne Anda Andans fyrer Band Fridarens. Einn Lijkame og ein Ande, so sem Pier erud kallader i einne Von i ydar Kallan. Eiñ Drottinn, ein Tru, eiñ Skijrn, eiñ Gud og Fader allra, sem er yfer ollum, fyrer alla, og i ydur ollum. Sia fremur 1 Cor. 12, 26.

528. Getur christeleg Kyrkia geinged til gruña?

Su oosynelega og almenna Kyrkia Forgeingur ei, helldur vidhelldst hun af hennar Hofnude Christo, at moote ollum Helvitanna Portum: þo lijdur Gud sumstadar, ad hun af Tyronnum og villu Monnum verde nokkrum sinnum eydelogd.

529. Hvad er nu efter i þridia Greinenne?

þrijr Hluter, nefnelega: Syndanna Fyrergiefning, Holldsens Upprisa, og þad eylijfa Lijf.

530. Hver fyrergiefer Syndena?

Sialfur Gud, sem Syndeñ er drygd at moote.

Marc. 2, 7. Hver maa fyrergefa Syndernar, nema Gud einn?

531. Hvad er ad fyrergefa Syndena?

Þad er, ad afmaa, og aftaka alla Synda-

dareñar Sekt og Straff so ad Syndarenn reikneſt so fyrer riettlærañ, sem alldrei hefde hañ syndgad.

2 Sam. 12, 13. Drottiñ hefur burt-tekid þijna Synd. Þu skallt eige deya.

532. Vill Gud linflega fyrergefa soleides Syndena?

Jaa, so opt sem nokkur snijr sier og truer Evangelio, vill Gud af eintomes Naad fyrergefa hønum Syndena, saker Christi, hver ed med sinu Bloode a Kresſenum fullnægt hefur fyrer allar Verallðariñar Synder.

Eph. 1, 7. J hverium vier høfum Endurlausnina fyrir hans Blod, sem er Syndana Fyrirgefning.

533. Hverium Mønnum vill Gud fyrergefa Syndena?

Øllum sañ-idrande og truudum Sælum, eñ eige Umbeotarlausum og Vantruudum.

Post. G. 2, 38. Snu-dydur, og hver eiñ ydar lati sig skyra i Nafni JEsu Christi til Syndaña Fyrirgefningar. Ezech. 18, 21. 22.

534. Hveriar edur hvad margar Synder vill Gud fyrergefa?

Allar Synder, þær stærstu med þeim minstu, þegar Syndareñ snijr sier ad eins af ollu Hiarta.

1 Joh. 1, 7. Ef vier um-gaungunst i Liosinu, so sem hann er i Liosinu, þaa høfum vier Sam-fielag indbyrdis, og Bloodid JEsu Christi hans Sonar hreinsar oß af allri Synd. Es. 1, 18. Rom. 5, 20.

535. Med hveriu Medale meddeiler Gud Mønnum Fyrergefningu þeirra Synda?

Med sinu H. Evangelio, eñ þad ad boda øllum sañidrande til Syndañā fyrergefningar, hefur hañ i siñ stad, gefed Magt og Myndugleika til, sinum Pienurum hier ā Jordu.

Luc. 24, 47. At prædikast i hans Nafni Idran og Syndanna Fyrirgefning medal allra Þjooda.

536. Hvert Medal er þad ā Mañsens Sijdu, fyrer hvert vier ødlunst Syndaña Fyrergefning?

Eckert añad eñ Truen, sem medtekur JEsum Christum, og i hanum riettlæted af einskiærre Naad.

Post. Giern. 13, 38. 39. Fyrer þennann bodast ydur Syndanna Fyrergefning, og af øllum þeim Syndum, af hverium þier getidei ordid riettlatir fyrer Mosis Logmaal, verdur riettlaatur fyrer hann, hver sem truir. Sia Gal. 2, 16.

537. Pienar ei soddan Kenning um Syndanna Fyrergefning til Andvaraleyses?

Marger ad søñu misbruka hana þar til, og falla þui i þeß hardare Fordæming; eñ Guds Born upptendrast af Naadeñe til elskuligs Þacklætis og eñ meire Guds Otta.

Ps. 130, 4. Hia þier er Fyrergefningin, ad menn ottist Þig.

538. Hvad

538. Hvad er Lykamans edur Holldsens Upprisa, sem su Pridia Greinen fremur hönd-lar um?

Ad a hrim ytsta Dege skulu, fyrer Guds Krapt, Lykamer astur allra þeirra daudu samteingiast Saalnnum, sem fyrr bigggu i þeim, og upprisa, sumer til eilijfrar Glede, eñ sumer til eilijfra Kvala.

Joh. 5, 28. 29. Sa tijme kemur, a hverium aller þeir sem i grofunum eru, skulu heyra hans Raust og þier munu þa utganga, sem gott hafa giørdt, til Lijssins Upprisu, enn þier sem illt hafa giørt til Doomsins Upprisu. Sia: fremur Joh. 6, 40. Dan. 12, 2.

539. Getur þetta mögulega skeð?

Ja, þvi Gude, sem hefur af eingvu Jordena skapad, og þann fyrsta Mañ af Jordu, er eingeñ Hlutur oomauttigur Luc. 1, 37.

540. Er naudsynlegt ad trua Upprisu Daudra?

Ja, fyrer sakir Guds launande og straffande Riettlætes, þvi þar ad hnijgur Von þeirra Gud-hræddu, og Skelfing siña Ogud-legra.

1 Cor. 15, 13. 14. Ef Upprisa daudra er ei, þa er eigi helldur Christur upprisiñ: Enn sie Christur ei upprisinn, þa er vor Prædikun oonyt, þa er og ydar Tru til forgefins. 2 Thess. 1, 6. 8. 2 Cor. 5, 10.

541. Munu Lykamerner i Uppreisuñe verda eins a sig komner nu?

Ney, þeir munu þa hafa andlega Eiginlegleika, og vera vodaudleger, ooforkreinkianleger, og hæfer, annadhvert til at byggia eilijfa Glede, edur Helviijtes Kvaler voendanlega.

1 Cor. 15. 42-44. Hier er nidurſeab nattúrlegum Lykama, enn ſijdann mun uppriſa andlegur Lykami item V. 53.

542. Hvert fara þa hier uppriſnu Lykamer med Sælunum?

Efter ad Doomurinn er affagdur, fara þeir Fordæmdu i Helviijtes eilijfann Elld, Kvaler og Pijnu, enn þeir Ut-voldu i þad eilijfa, himneſka og ſæla Lijf, Matth. 25, 34. 41. 46.

543. Hvad er þad eilijfa Lijf?

Þad fullkomna Samkvæme med Gude, þa þeir Salulhólpnu, a Salu og Lykama frijader aldeiles fra Syndenne og ollu illu, niota oo-endanlegs og oo-ut-maalanle Fagnadar, Fridar, Glede og Vegſemdar, og lofa Gud med ollum utvoldum Einglum oo-af-laatanlega. Pſ. 17, 15. 1 Cor. 13, 12. 1 Theſſ. 4, 17. Rom. 2, 6. 7.

544. Hvad er ſa eilijfe Daude?

Skammarlig og Angiſtarfull Uthyſing fra Sælu Guds, enn i hennar Stad nijſtande og brennande Ellds og Orma Kvol a Salu og Lykama.

Matth.

Matth. 25, 41. Farid fra mier bølvadir i eilijfan Elld, sem til-buinn er Dioflinum, og øllum hans Aarum. les fleira i Spek. B. 5, 2. Rom. 2, 8. 9. 2 Pet. 2, 4. Opinb. 20, 10.

545. Hverier fara til Helvijtes Kvala og þess eilijfa Dauda?

Aller þeir sem hafa lifad i vijs-vitande Syndum, og eru i Jdrunarleyse, Vantru, Andvaraleyse, og sølskum Þaunkum uñ Guds Rad, burt daner, og þeir kallast eilijflega af Gude utkastader.

546. Hvad er þesse Ut-kasten?

Ad sa alvijse Gud, eige af asettu rnde, helldur sokum Mansens eginn þrai-lautrar Þver skallanar, hefur su-lyktad ad ut-snara og fordæma alla þa, sem hann hefur sied fra Eilijfd, ad villdu þrai-lautliga forackta hans Rad, og hallda fast vid þeirra Umvendunarleyse og Vantru.

Joh. 3, 18. Hver sem truer a hann, dæmist ei, enn hver sem ecke truir, hann er allareidu dæmdur, af þvi hañ trudi ei a Nafn eingetins Guds Sonar.

547. Hverier verda hluttakande i Glede og Farsæld þess eilijfa Lijfs?

Aller þeir, sem sannarliga hafa truad a Christum, lifad christelega, og staded i þvi støduger allt til enda, og þeir kallast Utvaldir.

548. Hvad

548. Hvad er Utvalningen?

Ad Gud hefur aslyktad alla þa til eilijfs Lijfs, sem hann fra eilijfd hefur fyrer sied ad villdu medtaka hans frambodna Naad, trua a Christum, og i þeirre Tru standa stodu-ger allt til enda.

Róm. 8, 28. 30. Eñ vier vitum, ad þeim sem Gud elska, þiena aller Hluter til gooda, þeim sem eftir Fyrer-hyggiuñi kalladir eru: Enn hveria hañ hefur adur þeckt, þaa hefur hañ til-ætlad, ad þeir skijlldu sam-lykir verda hans Sonar J-mynd, so ad hañ sie Frum-getningur a medal margra bræ-dra. Enn þaa sem hañ hefur adur til-ætlad, þaa hefur hañ og kallad; og hveria hañ hefur kallat, þaa hefur hañ og riettlaata giort; eñ hveria hañ hefur riettlaate giort, þaa hefur hañ og dyrdarlige giort.

# Sa þridie Parturinn, um Bænina.

## Drottiñlig Bæn.

Fader vor, þu sem ert a Himnum! Helgist þit Nafn. Tilkomi þit Rijki. Værdi þinn Vilje, so a Jordu, sem a Himnum. Gef oß i Dag vort dagligt Braud. Og fyrerges oß vorar Skulldir, so sem vier fyrergefum vorum Skuldunautum. Og iñleid oß

ei

ei i Freistni. Helldur frelsa oß frai illu: þvi Riikid er þitt, Mattur-inn og Dyrdin um alldir Allda, Amen.

549. Hvad ā ad vera jafnlig Jdkan truande Christens Mans?

Ad umgengast Gud med Bænenne, og heilogum Yfervegunum, vid lyka sem þai Madur umgeingst og talar einlægliga vid Vin sinn. Ps. 19, 15. Eph. 6, 18.

550. Hvad er það ad bidia?

Þad er ad tala einfolldlega vid Gud i sinu Hiarta, ut-ausa Bæn sine fyrer honum, bera fram fyrer hann vorar andligar og lykamligar Naudsyniar, og af innsta Grunne Sailarinnar adleita nackurs med alvarlegre Efterlaungan.

551. Hver ā so ad bidia?

Aller Menn, og jafnvel Ung-bornen, Ps. 8, 3. þvi þad er einasta uppæleggd Skyllda, ļodru Bodordenu, og annars þrailiga, ad vier skulum bidia, helldur et þad stoor Naud og Good-giørd, ad vier aumer og oohreiner meigum og þorum, ad bidia. Luc. 11, 1-13. Cap. 18, 1-8. Ps. 50 16.

552. Kunna þa aller Menn ad tilbidia Gud med þeim Mata, sem hønum sie þægelegur?

Ney!

Ney! elge Idrunarlauser, hverra Bæn Gude er Vidurstygd, helldur þeir sem annadhvert eru um-vendter edur aullum-vendingarennar Vege.

Joh. 9,31. Vier vitum, ad Gud bænheyrer ekke Syndara, helldur þann sem er gudhræddur og giörer hans Vilia, þann bænheyrer hann. Sia meira i Ps. 50,15.16.17. Ps. 66,18. Ps. 145,18.19. Ordsk. 28/9. Es. 1,15. og s. f.

553. Hvern a madur ad tilbidia?

Alleina þann þrij-eina Gud, sem einasta kann ad heyra og full-giöra vora Efterlaungan.

554. Hvar a skal madur byggia Bæn sijna?

Ua Forþienustu JEsu, hans Medalgaungu og Fyrerbon hia Fodurnum.

Joh 16,23. Sannliga, sannliga segi eg ydur, ad hvers þier bidied Fodurinn i minu Nafni, þad mun hann veita ydur.

555. Hvornin a madur ad bua sig til Bænarinnar?

Madur skal i hiartaulegre Yfirboot alsetia sier einlæglega, ad vilia þioona Gude, og alvarliga ad mootstrijda allre Synd, hallda Hiartanu fra hiegomlegum Hlutum, yfervega sijna Naudsyn, setia sier fyrer Siooner Guds heilaga og nærdarrijka Nalægd, og so af Hiarta sinua sier, med Andvarpan um Bænarennar Anda, og allre Efterlaungan til

til Guds, so sem Uppsprettu Bruns allrar Giædsku.

556. Hvernin a vor Bæn edur Samtal vid Gud ad vera løgud?

Hun a ad skie i sonarligu Trauste med Hiartnæmleika, Audmykt og af forlijkunar somu Hiarta. Þar af hlytur ad koma Audmykt og Lotning Lijkamans fyrer þeim allra hæsta Gude, efter Dæme Guds Sonar og Heilagra.

Ps. 95, 6. Komid, lautum os tilbidia, og nidurkriupa fyrer Auglite Drottins, sem os hefur giørdt.
1 Tim. 2, 8. So vil eg nu Þad, ad Menn bidie i øllum Stødum, og upphefie heilagar Hendur an Reide og Orvinglunar. Joh. 4, 23. 24. Matth. 26, 39. Eph. 3, 14.

557. Nær og hvar a madur ad bidia?

Alltijd og allstadar, þoo hellst i Einrume.

Luc. 18, 1. Og hann sagde Efterlijking til þess ad menn ættu jafnan ad bidia, og ei læta sier leidast.

Matth. 6, 6. Þa Þu bidst fyrer, Þa gak inn i Svefnherberge þitt, og lyk Dyrunum aptur, og bid Þinn Fodur, sem er i Leijne, og Fader Þinn, sem i Leijnum sier, mun Þier Þad opinnberlega endurgialda.

558. A madur ad bidia einasta efter Bænabookum?

Lijka med af Hiartanu og med eigin Ordum.

559. Gieta Børn og einfalldt Foolk utfkiйrt þeirra Hiartans Þanka med þeirra eigin Ordum?

Jaa, þvi vid Gud kañ Madur ad tala so, jaa einfalldlegar eñ vid nokkurn Mann, og þar ad auk gefur hann Børnum sijnum Naudar og Bænarinnar Anda. Zach. 12, 10. Rom. 8, 5. 26.

560. Hvad margslags er þa Bænin?

Tvennslags. Su innvortis, þaa Hiartad einasta talar i Andvarpan, Efterlaungan og hoog-værre Upplyptingu til Guds, hver ed kallast iduglig Bæn, og bæde aa og kañ ad frambexast i øllum Athøfnum. Su utvortis, þa Munnnren talar af Nægd Hiartæns, og aa vißum Tijmum frambeer sina Þanka og Efterlaunganer med Ordunum.

Ps. 19, 15. Laat þier þoknast Ordrædu mijns Muñs, og Þaanka mijns Hiarta fyrer þier, Drottiñ mitt Biarg og miñ Endurlausnare.

Ps. 55, 17. 18. Eg vil kalla til Guds, og Drottiñ mun frelsa mig. Uñ Kvoollld, og Morgna, og Middegé vil eg kveina og særbæna, þa mun hann heyra mijna Raust.

Dan. 6, 11. Daniel fiell aa Knie þrisvar hvern Dag, og badst fyrer, og vidurkendest fyrer Gude.

Ps. 119, 164. Ps. 38, 10. Es. 29, 13. 14.

561. Eigum vier einasta ad bidia fyrer sialfum oß?

Ney,

Ney, fyrer øllum, og þoott þad væru vorre Ovíner, enn sier i lage eigum vier ad bidia fyrer Yfervalldenu, og Kennendunum, so og vorum andlegum Brædrum og Systrum.

Jac. 5, 16. Bidied hver fyrer ødrum, ad þier meiged heilbrygder verda.

Matth 5, 44. Bidied fyrer þeim, sem ydur giøra Skada, yferfalla og affækia ydur.

562. Hvar um̃ eigum vier ad bidia?

Ei alleina um̃ þad lijkamlega, so sem Uppheллde, Frid, Heilbrygde, til hvers vier eigum ad leggia þad Fororð, ef Gud vill! helldur sierdeilis um̃ andligar Saker, so sem Fyrergefning Syndanna, Styrk Truarennar, hreint Hiarta, goodan Underbuning Daudans, og þa eylijfa Saluhialp. Þoo eigum vier eige ann Fororðs, um̃ þær andlegu Saker, sem ei eru olldunges naudsynligar til Saluhialparinnar, ad bidia, so sem ædre Troppu i andlegu Volæde, Tilfinning af Truarennar Hugprýde, stoora andlega Gledе, og s. f. Matth. 6, 9. Luc. 11, 1. 2c.

563. Hvor er su fullkomnasta og besta Bæn?

Su heilaga Fader vor, sem JEsus hefur sialfur kiendt sijnum Læresveinum, og oß øllum ad bidia med, Matth. 6, 9-13. Luc. 11, 2-4.

564. Hvernen addeilest þesse Bæn?

I Jñ-gaungiñ, sio Bænirnar, og Nidurlaged.

565. Hvad er Jñ-gaungureñ?

Pad einlæga Aavarp: **Fadir vor, þu sem ert a Himnum!**

566. Þvi kallast Gud i Bænenne Fadir?

Gud vill med þessum litla Formaala hiartanlega leida os og lokka, ad vier trua skulum, ad hañ sie vor riettlegur Fader, og vier hans sannarlig Born, so vier þess helldur med fullu Trunadur Trauste meigum hann bidia, lyka sem good Born bidia siñ elskuligann Fodur.

567. Kunna og so þeir Idrunarlausu ad hafe pad Traust, ad kalla Gud þeirra Fødur a Himnum?

Hann er ad sonnu allra Fader ad Skøpunenne, Uppheldenu, og hans hiartanlega Vilia til ad snua þeim og frelsa þa. Þoo samt kunna þeir Idrunarlausu ei ad kalla hañ Fodur, so leinge sem þeir eige endurfædast, og fai sonarlegañ Anda, þvi annars er þeirra riette Fader i Helviite.

Joh. 8, 44. Þier erud af Fødurnum Fianda, og villed giora ydars Føadurs Girnder.

568. Hver kañ þa ad kalla Gud siñ Fader?

Þau endurfæddu og soñu Guds Born, jafnvel þoott þau sieu veik.

Gal. 4, 6. Eſter þri þier erud Børn, hefur Gud utſent Anda ſijns Sonar i ydar Hiørtu, ſem hroopar Abba, Fadir.

569. Þvi nefneſt þar Vor, og eige Miñ Fadir?

Þvi ſierhver Chriſten Madur ad bidia i Einingu Andans og Naudarennar, hver med ødrum, og fyrer ødrum, ſem ſialfum ſier.

570. Hvar fyrer køllum vier Gud Þañ Fødur, ſem er a Himnum?

Til þeß ad upp-lypta Hiartanu; og þvi helldur ad upperva audmiukt Trunadar Trauſt til þeß allra hæſta, ſem ſier og megnar alla Hlute.

Matth. 6, 32. Ydar himneſki Fadir veit, ad Þier þafed alls þeßa Þørf.

571. Eru margar Bæner i Fadir Vor?

Sio, af hverium fioorar þær fyrſtu heyra til þvi gooda, ſem vier umbidium; enn þriar þær ſijduſtu, þvi vonda, er vier afbidium.

## Fyrſta Bæn.

## Helgiſt þit Nafn.

### Þader:

Guds Nafn er ſannarliga i ſialfu ſier heilagt, þo vier bidium þ ß ecke, enn vier bidium i þeßare Bæn, ad þad eirnin helgiſt hier med oß, hvornin ſkiedur þad? nær Guds Ord kiennaſt riettelega og hreinlega, og vier effter þeim

þeim lyfum heilagliga, so sem goodum Guds Bornum hæfer, þar til hialpe oß vor elskulige Fader ai Himnum, enn hvor sem odruvijs kienner eda lyser enn Guds Ord bijdur, sa vanhelger Guds Nafn ai medal vor, þar fra vardveit oß vor elskulige himneske Fader.

572. Hvad merker Guds Nafn?

Hans Eiginlegleika, Ord, Sacramente, og allt þad honum sierdeiles tilheirer.

(Sjai fremur Utskijringuna yfer hid annad Bodord.)

573. Verdur þetta Guds Nafn helgara fyrer þad, ad vier bidium þeß?

Guds Nafn er sannarliga i sialfu sier heilagt; enn vier bidium hier, ad þad einnen helgest medal vor.

574. Hvernin helgast Guds Nafn?

Þai Guds Ord kiennast riettlega 2c.

Matth. 5, 16. Lætid so ydar lioos lijsa fyrer Mønnum, ad þeir sjai ydar Goodverk, og dyrdke Fodur ydar, sem æ Himnum er.

575. Hvernin vanhelgast Guds Nafn?

Med raungum Lærdome, og Ogudlegu edur hræsnes fullu Lyferne; þvi hver sem odruvijs kiennir, 2c.

Rom. 2, 23. Þu sem hroosar þier af Løgmalinu, vanheidrar Gud med Yfirtrodslu Løgmalsins.

Sja Ezech. 36, 22. 23.

576. Kañ Jdrunarlaus Syndare ad lesa til gagns þaa fyrstu Bæn?

Ney, eingvanvegenn af sannarlegu Hiarta; þvi hann er sialfur, sem lastar og vanbyrdkar þetta heilaga Nafn.

## Onnur Bænin.

## Til-komi þitt Rijki.

Þad er:

Guds Rijki kemur ad sonnu an vorar Bænar af sialfu sier til, þo vier bidium þeß ecke, enn vier bidium i þeßare Bæn ad þad eirninn kome til-vor, hvornin skedur þad? Nær Gud giefur oß sinn Heilaga Anda, sa ed oß veiter þa naad, ad vier truum hans heiliga Orde, lyfum heilaglega, hier stundlega, enn annars heims eilyflega.

577. Er Guds Rijki, edur Stiornan, margfalldt?

Þrefalldt, nefnelega:

1.) Natturunnar Rijki, i hveriu hann effter sinne Velþocknan stiornar ollum Hlutum og stijrer med sinu Almætte.

2.) Naadarinnar Rijki, þad er Kyrkian, edur Sam-qvæme heilagra, hvar hann stiornar sinum truudum Bornum med sinum Heilaga Anda i Ordenu og Sacramentunum.

3.) Dyrdarinnar edur vegsemdarinnar himneska Rijki, i hveriu, þeir sem Christo tilheyra, eilijflega skulu med honum rijkia i full-komenne Sælu og Glede.

578. Um hvert af þessum Rijkium bidium vier i annarre Bæn?

Um Nadarinnar og vegsemdarinnar Rijki.

579. Hvernin kemur Guds Rijki til vor?

Þegar Gud gefur oß sinn Heilaga Aanda ꝛc.

580. Kan eirn Jdranarlaus Syndare ad bidia fyrer sier til gagns med þessare annarre Bæn?

Ney, eige af riettu Hiarta, þvi hann er bræddur vid Heilags Anda Stioornan, rekur fra sier Guds Rijki, og lifer af Aasetninge i Satans Rijki.

581. Hefur Satan þa lyka eitt Rijki?

Jaa, Gud og Hofdinge þessarar Verallдar er kroftugur i Bornum Vantruarinnar, og under hans Stioornan eru aller Ondurfædder, allt inn til þeß þeir umvenda sier.

Col. 1, 13. Hann frelsade oß af Vallde Myrkranna, og hefur oß innsett i Rijke sins elskuliga Sonar.

582. Hvar af þeckiast þa þeir, sem eru i Diöfulsens Rijki?

Þar af, ad þeir þioona Syndenne, og giora

giora Diofulsens Vilia, so sem þeirra Herra.

1 Joh. 3, 8. Hver Synd driiger, hann er af Dioflinum.

## þridia Bæn.

## Verdi þiñ Vilje, so at Jordu sem at Himni.

þad er:

Guds goodur og naadugur Vilie verdur, þoo vier bidium þeß eige, enn vier bidium i þessare Bæn ad hans Vilie verde hier at medal vor, hvernin skiedur þad? Nær Gud onijter og hindrar oll ill Raad og vondann Vilie sem þvi va'da, ad Guds Nafn vanhelgast og hans Rijki naaer ei til vor ad koma, so sem er Diofulliñ Heimurinn og vor holdlegur Vilie, heldur styrker hann oß og stodug gioerer i sinum Ordum og Truñe allt til vorra Æfeloka. þetta er hans myskunsamur, og goodur Vilie.

583. Hvad er Guds Vilie?

Guds Vilje er vor Helgan i Tru og Kierleika effter Logmaalenu og Evangelio.

1 Joh. 3, 23. þad er hans Bod, ad vier skulum trua a Nafn hans Sonar JEsu Christi, og elskum hver annan, so sem hann baud oß.

1 Thess. 4, 3. þad er Guds Vilie, ydar Helgan.

584. Skiedur þesse Guds Vilie ætijd, og hia øllum?

Ney, þvi þangad sem Guds Rijki kemur eige, þar skedur ei hans Vilie, helldur Diofulsens Heimsens og Holldsens.

585. Hvernen skedur þar þesse Guds Vilie?

Þar Gud onijtir og hindrar oll vor ill Raad ꝛc.

586. Giører þa Vilie Mañsens ecker gott, ef hañ ma vera sialf-raadur?

Ney, þvi vors Hollds Skilningur er Fiandskapur i gegn Gude, hverke þeckium vier þad oß er raunar nytsamlegt, ei helldur hofum vier lysting til ad leita þeß nema Gud upplijse vort Forstand, og beige vorn Vilie til ad hlydnast sijnum Vilia, sem er alleina viis, goodur og fullkomen.

[587. Getur Guds Vilie skied hier a Jordunẽ af Møñunum, sem a Himnum, af Einglunum?

Jaa, þott ei so fullkomliga, þa samt med so hiartanligre Eiulægne, Glede og Alvørugefne.

588. Er þad noog, ad vier i hlydneñe giørum Guds Vilia?

Ney, oß byriar og so þolinmoodliga at lijda Guds Vilia, og gefa oß vilingliga i hans Hond, sem hiñ Siuke sig i Læknarans.

1 Sam. 3, 18. Eli sagdi: hañ er Drottiñ, giøri hañ hvad honum vel þocknast.

589. Geta veralldariñar Børn til gagns leſed af Hiarta þar þridiu Bæn?

Ney, þvi þau ſtrijda vijs vitande at moote Guds Vilia, og vilia ad hañ hage ſier efter þeirra fa-viiſum Vilia og ſyndſamligum Sier-þootta.

## Fioorda Bæn.

## Gef oß i Dag vort dagligt Braud.

Þad er:

Gud gefur ad ſoñu dagligt Braud, jafnvel vondum Mønnum, þo vier bidium þeß ekke, eñ vier bidium i þeßare Bæn, ad hañ laite oß vort dagligt Braud meiga viðurkienna, og med þackiæte til vor medtaka, hvad kallaſt dagligt Braud: allt þad ſem naudſynlegt er til þeßrar Lyfsbiargar, ſem er Matur og Drikkur, Klæde og Skiæde, Hus og Heimile, Fodur og Eingiar, Kvikfenadur, Gots og Peningar, good eigiñ Kvinna, hlydiñ Born, diggt Þionuſtufolk, truer og froomer Yfermeñ, good almugans Stiorn, Hagſtæd Vedurænta, Fridur, Heil-brigde, Sidſeme, Heidur og goodir Viner, truſaſter Naungar, og allt annad þeßu lijkt.

590. Hvad ſkilſt fyrer dagligt Braud?

Allt þad ſem naudſynlegt er til þeßarar Lijfs-

biargar 2c. og vier bidium ei einasta, ad mei-
ga fáa þad, helldur þad lijka bleßest os.

591. Þvi kallast allt þetta Braud ?

Þvi Brauded er þad almennasta og naudsynlegasta Medal til Lijkamans Upphelldis.

592. Hvers vegna bidur þu um dagligt Braud ?

Þvi eg at ad vera amægdur med naudsynlegt Uppheldé cenn þeß ad kieppast efter Ysersliotannlegu.

1 Tim. 6, 8. Þa vier hofum Fæde og Klæde, fullum vier lata oß nægia þar med.

593. Þvi er þetta Ord i Dag tillagt ?

Þvi eg mat ei bera Umhyggiu fyrer Morgundegenum, heldur lata hvorn Dag hafa sina Planing. Matth. 6, 34.

594. Þvi seger þu gief oß vort Braud ?

Vegna þeß vier innelykium vorn Naunga i Bæninne, lijka þeß vegna ad vier mættum eta vort eiged Braud, eñ ei stoled Braud i Rainglæte og Lete, sem leider efter sier Hußgang.

2 Theß. 3, 12. Slijkum biodum vier og aminnum fyrer vorn Drottin JEsum Christum, þad þ. ir ervide med Spaklæte, og ete sitt eiged Braud.
1 Theß. 4, 11. 12.

595. Aa þa sa sem bidur um dagligt Braud ad ervida lijka fyrer þvi ?

Jaa.

1 Mos.

1 Mos. 3, 19. J Sveita þijns Andlitis, skaltu þijns Braudsneita.

596. Mæ skal Rijke þa eige vera alldungis Jdiulaus?

Ney, fijrst hañ vill eta, at hañ ad erbida, þad er, ad giora eitthvad gott, hvad sem þad er, til Guds Dyrdar og Naungans Nytsemdar.

1 Pet. 4, 10. Þione hver odrum, hver eirn efter þeirre Gaafu, sem han hefur odlast, sem gooder Forstiornar Meun margvijslegrar Guds Naadar.
2 Thess. 3, 10. 11. 12.

## Fimta Bæn.

## Fyrergief oß vorrar Skulder, so sem vier fyrergiefum vorum Skuldunautum.

Þad er:

Vier bidium i þeßare Bæn, ad vor himneskur Fader vilie ei alyta vorar Synder, so hañ fyrer þeirra Skuld vilie ei veita oß vora Bæn, þvi vier erum allra Hluta omakleger, sem vier hañ um̃bidium, hofum og ei heldur þad forskuldad. Heldur ad hañ vilde oß þad allt fyrergiefa fyrer sijna eiginlega Naad, þvi daglega syndgunst vier, og forþienum ei utan Straf, þvi vilium vier og eirnin þar i moot fyrergiefa af Hiarta þeim sem oß i moo-

tebrioota, eñ giora þeim gott, sem oß misgiora.

597. Hvada Skuld er þad, sem vier bidium Gud ad fyrergiefa oß?

Vorar Synder med þeirra forþientu timanlegu og eylijfu Straffe.

598. Vill Gud fyrergiefa þa Skuld an Betalings?

Christur hefur betalad þañ sijdasta Pening fyrer oß, sem ei kunnum sialfer ad betala, þ:ß vegna bidium vier i hans Nafne um̃ Naad og Fyrergiefning.

599. Hefur Syndaren þørf ad bidia dagliga um̃ Fyrergiefning Syndanna, þa Gud hefur einu sinne aadur teked hañ til Naadar?

Jaa, so sem vier daglega þurfum Brauds vid, so þurfum vier dagliga Naadar og Fyrergiefningar vid, sokum þeß, þvi verr! vier syndgum daglega af Breiskleika, jafnvel þott Guds Børn syndge ei meira af asettu Raade og Jllsku.

Psal. 19, 13. Hvor kañ ad formerkia hvad oft hañ misgiorer, hreinsa mig af minum heimuglegum Brestum?

600. Hvorin lofum vier Gude i þessare Bæn þa vier leitum Fyrergiefningar hia honum?

Ad vier aftur a moot Vilium fyrergiefa vorum

vorum Skuldu-nautum, það er, oðrum sem hafa syndgað a moote oß, jafnvel þott vier ei þar med forþienum af Gude Syndanna Fyrergiefning.

Col. 3, 13. Fyrergiefed hver oðrum innbyrdis, hafe nokkur Kløgu-maal moot oðrum, lyka so sem Christur hefur fyrergiefed ydur, so skulud þier og eirnen.

Luc. 6, 37. Fyrergiefed, so mun ydur fyrergiefed verda.

601. Kañ þa sa haturs- og hefndar-fulle ad lesa þeßa fimtu Bæn sier til nokkurs gagns?

Ney, þvi fyrst það er ei satt ad hañ fyrergiefe þeim sem hañ hafa styggt, þa bidur hañ ad Gud fyrergiefe sier eige helldur hans Synder, hvert ei helldur skedur, eñ Reide Guds varer yfer honum, so sem hans Reide yfer Nauunganum.

Sir. 28, 1. 2. Hver sijn sialfur hefner, a þeim mun Drottiñ aftur hefna, og hañ mun giefa grant giætur ad hans Syndum. Fyrergief þijnum Naunga það hañ hefur Oriett giort, og þa þu sijdan bidur, mun þijn Synd fyrergiefeñ verda.

Matth. 6, 15. Ef þier forlæted ei Mønnum siñ Breßt, þa mun og ei ydar Fader forlæta ydur ydar Brot.

## Siøtta Bæn.

## Eige leid þu oß i Freistne.

Þad er:

Gud freistar ad sønnu einkes Mans, enn

vier bidium i þessare Bæn, ad hañ vilie vernda og vardveita oß a moote Diofulsens, Holldsens og Heimsens Vielum, ad vier hropum ekke fyrer þeirra Tilteiging i Vantru, nie Orvænting edur adrar Stoorsynder og Løstu, og þoo vier freistunst af ollu þeßu, þa laate hañ oß um sijder yfervinna, og Sigrenum hallda.

602. Freistar Gud einkis Mans?

Hoñ freistar einkis til hins vonda, þvi þad mootstrijder hans Heilagleik. Jac. 1, 3.

603. Eru þa meir eñ einslags Freistingar til?

Jai, sumar af Gude til þeß gooda, eñ hinar til ills eru af Dioflenum, Heimenum og voru eigen Hollde og Bloode.

604. Hvad eru eigeñlega þær Freistingar, sem koma fra Gude?

Þær eru sierdeilis lykamlegar edur andlegar Reynslur, sem Gud lætur Menn rata i, til þeß ad reina þa, og openbert giora, hvort i þeirra Hiarta er soñ Tru, Kiærleike edur Þolinmæde.

605. Seg þu fra nokkru til dæmes uppa soddañ Freistingar?

So reineñt edur freistast sa Rijke med sinum Rijkdome, hvort hañ er miskunsamur; sa Fatæke med hans Fatækt, hvort hañ

hañ er amnægdur; sa megtuge med hans Magt, hvort hann er lytelatur; sa Vesæle med hans Eijmd, hvort hañ er þoleñmoodur, sco sem hverke sier nie fyñur Huggan, hvort hañ gietur truad.

606. Þekker Gud ekke ad Þeß Mannsens Hiarta?

Ju! Gud þekker hans instu Þanka aleingdar, eñ hañ vill Maduren verde bæde sier og odrum alþektur.

Joh. 6, 6. Hañ sagde Þad til Þeß ad freista hans, Þvi hañ visse sialfur hvad hañ vilde giøra.

Sia Þu Efterdæme Abrahams 1 Mos. 22, 1. &c. Israëls i Eidemørkenne 2 Mos. 16, 4. Ezechiæ 2 Kron. 32, 31.

607. Bidium vier Þa i siøttu Bænenne, ad Gud alldrei freiste vor?

Ney, Þvi Þad er oß oftlega harla nytsamlegt.

Jac. 1, 2. 3. Brædur miner! halldeð Þad fyrer allsonar Glede, Þa ed Þier falled i adskiliannlegar Freistinaar. Vitande Þad ad Reynsla ydar Truar verkar Þolennmæde.

608. Hvad er Þa Meining Þeßrar Bænar?

Ad sialfur Gud vilde ei freista vor yfer vort litla Megn fram, helldur audsyna sig trufastan, ad giefa Freistningunne Þañ Enda, ad vier sceum vel stadest, og Þa hañ lydur Þad,

ad vorer Ovíner freiste vor, ad hañ setie þeim vijst Takmark.

609. Hverier eru þeir Ovíner, sem freista vor til þeß vonda?

Þeßer: Dioflullíñ, Heimuríñ og vort eiged Holld og Blood.

610. Hvernig freistunst vier af þeßum vorum Sælar Ovínum?

1) Dioflull ñ, sa riette Freistare, iñstijtur vondum Freistingum, sem glooande Piilum.

Joh. 13, 2. Dioflullen hafde skoted i Hiarta Judas Simonar Ischarioths, ad hañ skyllde forraada hañ.

2) Heimuren, þad er Heimsens Børn, freistar med Dognan, Tillokkan, vondum Eftirdæmum og ooſæmelegum Ordum, sem Spilla, goodum Sidum.

Ordſt. 1, 10. Son ur min! Þegar Ogudliger lokka þig, þa far þu hvergi.

3) Vort Holld og Blood, edur vond Nattura, so sem so nææregaste og haiskasamlegaste Ovín, freistar vor med i-hug-fallande vondum Gyrndum og Tilhneigingum.

Jac. 1, 14. Hver eiñ freistast, þa hañ er leiddur og lokkadur af siñe eigen Gyrnd.

611. Hvad skal sa til giøra, sem freistast til þins vonda?

Hañ skal vaka, bidia og strijda med þeim and-

andlegu Hervopnum moot þeßum hayſkaſo-
mu Ovinum.

Eph.6, 16. 17.18. Umfram alla Hlute, handled Skiolld Truarennar, med hverium Þier kunned ad utſlokva oll eldleg Skeyte hins Vonda, og griiped Hialm Hialpræðeſens og Sverd Andans, hvert ad er Guds Ord. So ad Þier bidied a ollum hendtugum Tijma med Alvorn Bæn og audmiukre Beidne i Andanum, og vaked Þar til med allre Stadfeſte og audmiuku Akaile fyrer ollum Heilogum.

612. Er ekke Vantru og hædeleger Þankar edur Furaner um Gud, Freiſtningar Diofulſins og Mannſens Hiarta?

Ju, eñ ſierhver Riett-truadur, ſem hefur ai Þvi ſtoora Vidurſtygd, og ſtrijder af ytraſta Megne Þar ai moote, fær ſig Þar vid huggad, ad Gud ſier, ad Þad er ei honum i Sialfrœde, helldur ein hormuleg Þiauning, ſu er ad Endalokum verdur til Saluhialpar nota.

613. Getur madur ei ſialfur leidt ſig i Freiſtne?

Ju, Þai hann ei flijr og fordaſt allt tækefære til Þeß vonda, helldur les hayſkaſamlegar Bækur, umgeingſt einfalldlega med Veralldarennar Bornum, edur tekur ſier fyrer Hendur af Sialfsdaudum Þa Hlute, er kunna leida til Synda, og hneixla hañ.

614. Hvad er Hneixle?

Aſteiting, ſem liggur i gotu fyrer vorre Salu, og kann ad verda henne til Falls.

615. Er þa Hneixled margfallt?

Tvennslags.

1) Giefed Hneixle, sem ødrum verdur giefed med syndsamlegum Ordum, Athøfnum, Verkum, Forsømun, edur og Sialfrædes Vanbrukan, sierdeilis, þar er þad skiedur af þeim, sem i þeim fremur Høfud-Stiettunum eru setter ødrum til goodrar Fyrermyndar.

2) Teked Hneixle, sem rangt lega er teked sier til af saklausum og goodum Hlutum.

Matth. 18, 7. Vei Heimenum fyrer Hneixlaner!

1 Cor. 8, 13. Róm. 14, 13. og f. f.

Matth. 15, 12. 13. 14 Þa geingu fram hans Lærisveinar, og sogdu til hans; Veistu, ad Phariseaner hneixludu sig, þa er þeir heyrdu þessa Rædu? En hañ svarade og sagde: Øll Plantan, sem min himneskur Fader hefur ei plantad, skal upprætast. Laated þa fara, Blinder eru Blindra Leidtogar, eñ þa Blindur leider Blindañ, falla þeir baader i Grifiuna. Joh. 6, 60. 61.

## Su siøunda Bæneñ.

# Helldur frelsa oss fra Illu.

Þad er:

Hier bidium vier alls i einu i þessare Bæn, ad Fader vor himneskur frelse oss fra ollu Illu til Lijfs og Saalar, Farsælldar og Heidurs, og ad sijdustu, þa vor Daudastund er

komeñ,

komenn, giefe hann oß goodann Afgang, og miskunsamlega take hann oß af þeßum Eimdardal til sin i Himnarijke.

616. Er margslags þad Illa, sem vier hier afbidium?

Fioorslags, nefnelega, bæde fyrer Sal, Lijkama, Æru og Gots, og þeßvegna ad Diofullen er vondur, og Or ok til alls hins Illa, þa bidium vier ai moote honum i þeßare Bæn.

617. Hvad er illt fyrer Sælena?

Syndenn sialf, Root alls Ills, nagande Samvitska, Forherding, Orvinglan og eylijf Helvijtes Angist.

618. Hvad er illt fyrer Lijkamann?

Aller Siukdomar og adrar sarlegar Kvaker, af Hungre, Kulda, Fangelse, Landflootta, og þeßhattar.

619. Hvad er illt fyrer Æru vora og Gots?

Spott, Skomm og svivirdelegur Armoodur, Ran timannlegra Audæfa af Þioofum, edur Vijkingum, Elldsbruna og Vandsvoda.

620. Hvad eigum vier hellst ad afbidia af þessu ollu illu?

Þad sem illt er fyrer Salena, þvi hofum vier Frid vid Gud i vorre Samvitsku, þa kunnum vier ad hughreijsta os i ollu odru illu,

illu, þvi þat er þad hid fyrsta heilsusamlegur Kroß.

621. Hvers vegna er Kroßeñ heilsusamlegur?

Þvi hañ nidurdempar Syndena, Holldsens Sialfrœde og Elsku til Heimsens; Enn uppvekur Efftirlangan þeirrar eylyfu Rosemdar; hann æfer, reijner, og styrker Truna, og hennar Averke, Bænena, Ihugan Guds Orda, Audmyktena, Þoleñmædena, Reynsluna, Vonena; orsakar þad ad Naud og Almætte Guds þeckest i vorum breiskleika; giører oß samlyka JEsu mynd, og leggur Vegiñ til þesstærre Vegsemdar.

Post. G. 14, 22. Oß byriar giegnum micklar Þrauter iñ ad ganga i Guds Rijke.

622. Eru ei og so þeir Ogudlegu tijdum Kroßberendur?

Ney, eingenn er Kroßberare utañ sañur JEsu Efftirfylgiare, eñ sa Ogudlege hefur ad sonnu margar Þianingar, sem hann offtast bakar sier sialfur Ps. 32, 10.

623. Nær frelsast Guds Børn til fulls fra ollu Illu?

J Daudanum, hver ad er ein Frelsan fra þessum dauðlega Lykama.

624. Meigum vier oosta oß Daudans?

Ecke af Oþoleñmæde, helldur af leida at Syndenne, og Efftirlangan Truareñar til

þeir-

þeirrar fullkomnu Sameiningar vid vorn Hiart-kiæra Endurlausnara, enn þo so ad vier med Þoleñmæde befolum þad hans Vilia.

Phil. 1, 23. Eg hefe Lyst ad fara hiedañ, o vera med Christo, þvi þad være mier langtum betra.

625. Hafa þau ooapturhorfnu Heimsens Børn Orsøk til ad oosta sier Daudans?

Ney, þau hau þad gioora, yfervega þau ei hvad fyrer þeim liggur, og hverju herfelegur ad er sa Kvalastadur, sem þeirra Saaler fara til i Daudanum.

626. Hvør ødlast þañ farsælañ Dauda?

Sa ed i Drottne deyr, þad er i rettre Truareñar Innlijfan med Christo.

Openb. B. 14. 13. Sæler eru þeir Daudu, sem i Drottne deya her effter. Ja! Andeñ seiger ad þeir skule hvilast af þeirra Erfide, enn þeirra Verk fylgiast med þeim Ebr. 12, 13.

627. Eru þeir þa ecke aller sæler, sem so eru kallader þa þeir eru dauder?

Ney. [illegible]

Spek. 3, 1. Saaler rettlatra eru i hende Drottens, og eingen Pina mun snerta þær.

628. Hvernin hlioodar Niðurlaged af Fader vor?

Þviad þitt er Rijked Magten og Dyrdiñ, ad Eylyfu, Amen.

629. Þvi miñest ein and=varpande Saala ad sydustu i Bæneñe þessra Hluta?

Veaua þeß ad Endurminning Guds Rijkes, Magtar og Dyrdar er kræfftugt Medal til Uppørfunar i Trunne og Vonenne umm Bænheyrskuna.

630. Hvad merker þad sydasta Auka-Ord Amen?

Þetta okunna Ord merker, jai vissulega, sannarlega, þad skal verda.

631. Kañ madur ad vera viß um̃ ad hañ bænheyrest, og fæe þad sem hañ bidur um̃?

Ja! þvi Gud hefur skipad ad bidia, og lated Fyrerheit fylgia med, so þad skal verda, ad hann bænheyre oß. Amen Amen! vissulega skal þier þad allt giefast. Lyka verdum vier visser giørder her um̃ med Fyrerboon Christi, Heilags Anda, og allrar christelegrar Kyrkiu.

Luc. 11, 9. Bidied, og þaa mun ydur giefast, leited og munud þier fiña, Klapped aa, og fyrer ydur mun upploked verda. Ps. 50, 15. Es. 65, 24. Joh. 16, 24.

632. Skeder þad þaa alltijd?

Jai! nema so sie ad Madur bidie aa moote Guds Vilia, edur um̃ þad, sem hann sier oß ei ad vera þienañlegt, og þai veiter hann oß ei þad sama, helldur eitt hvad annad betra i þeß stad.

1 Joh. 5, 14. Þesse er su Diørfung sem vier høfum

sum til hans, ad ef vier bidium einhvers effter hans Vilia, þa bænheyrer hann oß. 2 Cor. 12, 8. 9.

633. Lætur Gud þa strax Bænheyrskuna koma fram?

Stundum, en ecke ávallt; þvi þa hann vill æfa oß i Stodugleyde Truarennar, Von og Þoleñmæde, þa dregur hann undan Hialpena nockra Stund, enn veiter hana sydan a hentugum Tijma. Sia Hab. 2, 3. 2 Pet. 3, 9.

634. Seig mier nu Loksens, hvad a ad koma Mañe t.l þeß ad bidia iduglega?

Skipan og Lofan Guds, Neyd og Nytseme Mans sialfs, so ad þar med æfest Truenn eñ Gud verde dyrkadur, og lofadur fyrer Bænheyrskuna.

# Sa fiorde Parturen.

# Um Sacramentum Skijrnareñar.

635. Hvad er Sacramente?

Þad er sierdeiles heilog Handtiering innsett af Gude, i hverre hañ med synelegum Medolum, frambijdur giefur og stadfester sina osynelegu Nad og himnesk Giæde.

636. Vora

636. Voru mørg Sacramente i gamla Testamentenu?

Tvo: Umskurnenn og Paskalambed?

637. Hvad skilur þu fyrer Umskurnena?

Gud skipade Abraham, ad allt Kallkyn af hans Sæde, skylde effter Fædinguna eʼalaust umskerast og ai þañ hatt medtakast i Sattmaila vid Gud, þo reiddu gijdingar sig fastlega ai Umskurn sina i Holldenu ann Umskurnar Hiartans i Andanum. 1 Mos. B. 17, 19. og so framveiges. Rom. 2, 28. 29. Jer. 9, 26.

638. Hvad skilur þu fyrer Paska-Lambed?

Paska-Lambed var tilskipad af Gude ai dogum Mosis, til Endurmiñingar Utleidslu Jsraels Barna af Egyptalande med þvi var og innsiglud Tru þeirra ai þañ tilkomande Messiam, hvor ed skyllde sem eitt Lamb slaatradur verda. 2 Mos. 12, 1. 10. og so framveiges. 1 Cor. 5, 7. Ebr. 11, 28.

639. Eru mørg Sacramente i nya Testamentenu?

J stadenn Umskurnarennar og Paska-Lambsens hefur vor Drottenn JEsus innstiftadønnur tvo i nya Testamentenu, sem eru: Su heilaga Skyrn og þad heilaga Kvølldmaaltijdar Sacramentum.

640. Eru

640. Eru þa aller Christner skyllder til ad tijdka þesse heilogu Sacramenta?

Jä, þeir eru skyllder til ad þacka Gude fyrer þvi lijk Naadarennar Medol, og eiga þaug eingann veg ad forsooma edur fyrerlijta, enn þo samt ei i Blindne ad setia Atbvarf sitt einasta til þeirra, Yferbootar og Truarlausar Tijdkunar.

641. Hvor er Mismunur þeßra tveggia Sacramenta?

J Skijrnarennar, so sem i giegnum Dyr christelegrar Kyrkiu, innleidest og innlijfast Madur Naad Guds og Samkvæme heilagra, enn af verduglegre Tijdkan Alltaresins Sacramentis stadfestest og eflest hans Saal i þvi uppbyriada gooda.

642. Hösum vier margs ad giæta hia Sacramento Skijrnarennar?

Þriggia Hluta, so sem: Hvad þad er, hvad gott Gud veiter os med þvi, og hvar til þad skylldar oß.

643. Hvad er Sacramentum Skijrnarennar?

Skijrnenn er ekke einsamallt Vatn.

644. Hvad er hun þa meir?

Hun er þad Vatn, sem innlæst er med Guds Skipan, og Guds Orde samteingt.

645. Eru marger veruleger Hluter i þeirre heilogu Skijrn?

Tveir, nefnelega: Vatned, og Guds Ord samlagad Vatnenu.

646. Hva-

646. Hvada Vatn er þad?
Naatturlegt og almennelegt Vatn.
647. Hvada Ord samlagast Vatnenu?
JEsu Ord: Matth.28,19. Marc.16,15.16.
Fared ut og kiefned ollum þiodum, og skijred þær i Nafni Fodurs og Sonar og Heilags Anda.
648. Hvad er Inntak þessara Orda?
Þad er tveniislags: Skipan ad skijra, og skijrast laata, lyka Fyrerheit Sailahialparennar þeim skijrdu, sem trua og so riettelega.
649. Hvernin handterast su heilaga Skijrn?
Annad hvert idijfest Madur Vatnenu, edur verdur med þvi yfer-ausenn i Nafne Guds Fodurs, Sonar og Heilags Anda.
650. Þvi nefnest Nafn Heilagrar Þrenningar i Skyrnenne?
Christur hefur so skipad, til þess ad giefa þar med kijnna, þad sa Skijrde inngeingur þa innelegt Samkvæme og Forlijkun vid Gud, heirer honum til, og teiknast (þvi) med hans Nafne.
651. Hver ma þannig ad skijrast?
Allar Þioder, efter Christi Ordum, og eins Ungbornen, þad er ad aungvum undanteknum aller Menn, sem vilia inngan-
ga

ga i Guds Søfnud og verda saluholp-
ner.

652. Hver a ad handtera Skijrnena?

J Naudsyn mai sierhver Christenn gio-
ra þad, enn reglulega handteraſt hun af
Guds Orda Þienurum, sem eru Raads-
menn yfer Guds Leindardoomum. 1 Cor.
4, 1.

653. Hvad stodar oß og veiter Skijrnenn?

Hun utvegar oß og veiter Syndanna Fy-
rergiefning, frelsar oß fra Daudanum og
Dioflenum, og giefur þeim ollum eylijfa
Saluhialp, sem trua þvi sem þeße Guds
Ord og Fyrerheit losa.

Ordenn Guds og Fyrerheit eru þeße:

**Marc. 16, 16. Hver sem truer og verdur skijrdur, hann skal holpen verda, enn hvor sem ekke truer, hann skal fordæmaſt.**

654. Hvad er Meining þeßra Orda?

Þeße ad Skijrnenn gioter oß tvofaldt
Gagn: fyrſt frijar hun oß fra miklu illu, og
þar næſt færer oß myked gott.

655. Hvad er sierdeilis þad fyrſta illa, sem Skijr-
neñ frelsar oß fra?

Synden, þad er, ad bæde Sekt og Straf
Upp-

Uppruna Syndarennar, sem og þeirrar giøranlegu, verdur fyrergiefed, og Magt edur Yfferrad Syndarennar nidurdempud fyrer Kraft Christi i þeim sem skijrdur er, iafnvel þott Synden ei alldeilis upprætest.

Rom. 6, 4. So erum vier þa jardader med honum fyrer Skijrnenna til Daudans, upaa þad ad lyka so sem ad Christur er upprisen fra Daudum fyrer Dyrd Fodursens, so eigum vier ad ganga i Endurnijung Lijfdaganna.

656. Hvad er þa þad annad illa, sem Skijrnen frijar oß fra?

I fra Daudanum, i þvi ad eingar Lijdaner, og ei su sijdsta Burtfoor er þeim skijrdu og truudu Christnu Hegning edur Skade, helldur Abate, blessadur Kroß, og saluhialpleg Innfærsla i þad eylijfa Lijf, þar sai andlege og eylijfe Daude hefur tapad sinne Magt yfer þeim.

1 Cor. 15, 55. og 57. Daude! hvar er þinn Brodder? Helvijte! hvar er þinn Sigur? Lofadur sie Gud, sem oß hefur Sigurenn giefed fyrer vorn Drottenn JEsum Christum.

657. Hvad er þad þridia illa, sem Skijrnenn frijar oß fra?

Diofullen, þvi hann tapar sinne Magt hia þeim, sem fyrer Skijrnena eru flutter fra Myrkrenu til Lioosßens, fra Satans Vallde til Guds. Post. G. 26, 18. Col. 1, 13.

658. Hefur

658. Hefur Christur ei endurleyst oss fra Synd denne, Daudanum og Dioflenum? hvorsu tileinkast þa su Frelsan Skijrnenne?

Vegna þess ad Skijrnenn er þad Medal, fyrer hvort vier komnunst i Sameining med Christo, og niotum hans Velgiörninga.

Gal. 3, 27. So marger sem eru skijrder uppa Christum, hafa iklædst Christo. Rom. 6, 3. 4.

659. Hvad gott utvegar Skijrnen oss i staden þess illa?

Eylijft Lijf og Saluhialp hvert ed verdur naudsynlega ad fylgiast ad med Fyrergiefning Syndanna hia þeim Christnu, sem skijrder eru og trua.

Marc. 16, 16. Hvor sem truer og verdur skijrdur, skal holpenn verda, enn hver sem ekke truer, skal fordæmast.

660. Hvar i er Sæluhialpen innefalenn?

J þvi ad sameinast med Gude, og odlast Gud, þvi hann er þad ædsta Gooda, og su verulega Sæla. Joh. 17, 21. 27.

661. Verda þeir aller sæluhiolpner, sem eru skijrder?

Ney, ekke aller, helldur þeir skijrder, sem trua; þvi Christur seger, ad sa sem ei truer, skule fordæmast, þott hann sie skijrdur.

662. Er þad mögulegt, ad Ungbörn hafe Truna?

Jai, þvi þau kunna verda hluttakendur

Heilags Anda Verkunar, aun þeß þau vite, edur þekke hana.

Luc. 1,15. Og i fra Moodurkvide mun hann uppfylltur verda af Heilogum Anda. Ps.22,10,11. Ps. 8,3. Matth.18,6. Cap.19,14.

663. Fordæmast þau Ungbørn er deya ꜳdur þau hlioota Skijrn?

Eingan vegen, þvi þau forakta ei, helldur missa þad Naudarennar Medal, sem Gud ad sonnu hefur oß vidbunded, enn ei sialfan sig, þvi hann gietur og aun Skijrnarennar giort saluhalpen.

Matth. 18, 14. So er ei helldur Villie Fødurßyns, sem er ꜳ Himnum, ad einn af þeßum Smælingium skule fortapast.

664. Søkum þeß þad er so stoor og ypparlegur Hlutur ad frelsa Menneska fra Syndenne, Daudanum og Diøflenum, og giefa þeim þad eylijfa Lijf, þa seg mier, hvørnen maa Vatned orka so veglegra Hluta?

Vatned maa ekke slijks orka, helldur Guds Ord, hvørt ad er i Vatnenu og med Vatnenu, og Truenn, sem truer eflaust þessu Orde, sem tillagt er Vatnenu: þvi være þad fyrer utan Guds Ord, þa være Vatned Vatn, og eingen Skijrn: Enn þegar Guds Ord samlagast Vatnenu, þa er þad Skijrn og Naadarfullt Lijfsens Vatn, og Endurgietningar-Laug

